úr mínar í Hnappadals- og Snæfells-sýslu vóru af vidfrægustu Læknurum í Kaupmanna-hofn ytarlega reyndar og ransakadar og fundust yfrid gódar og heilnæmar og jafnast vel vid þýdska heilnæmis brunna, ecki síst ytra Skógarnes-Ölkélda [119]), en — svo fáir sem engir nota sér enn í dag neitt af þeim.

Vegna þess ad Sallt er bornum mínum ómissanlegasta vara til búbætirs í morgu tilliti, til matreidslu og gódrar verkunar á fiski, kjöti, smjöri, gladdist eg stórum, þá Kóngur minn med örlátlegum kostnadi lét reisa upp fássjed Salltverk yfir vellandi hverum á mínu Reykjanesi vestra, og einkum þegar mitt egid sallt bædi féckst þar mikid og reyndist þarhjá gott [120]). Walter og Adam Usler vóru mér sendir frá Norvegi til ad koma því í gott stand, og gáfu um þad bestu von, en — ávoxturinn frá 1773, er þad eginlega höfst, vard þó rír og kom hér færstum ad haldi, líka er vottur þess augljós, þar sem eg mátti telja mér þad ardlaust med öllu og ad mestu leiti undir lok lidid eptir 13 ár. Um stærra og ardmeira Salltverk á Reykhólum, hefir lengi og margt verid skrád [121]), en bædi þess ísjár-

Ll 4 verdi

[119]) Sjá Olavii Reise. p. 305-18.

[120]) Sjá Isl. Maanedes Tidender 1te Aargang 1773. bls. 10. 2den Aarg. bls. 24-25 og 3dje Aarg. bls. 157-166.

[121]) Sjá somu og Forberedelsen til Olavii Reise, pag. CLXXV-VIII. og Deo, Regi, Patriæ, p. 233 etc.



verdi kostnadur, og enn óvissa innsigling hafskipa þángad ad, hefir híngadtil látid allt lenda vid einberar óskir og ætlanir; enda var þér þad tamt, mín framlidna! ad hafa ótal teina á lopti til ad leggja í eldinn, en opt ad fá einhvørja brennda, er þú eldadir marga í einu. Ad þessi brann, syrgi eg laungum, þvi med honum tel eg ad brynni heillavænleg ábata von mín.

Børnum mínum vóru ad sønnu fleiri heilrædi gèfin til Sallt-abla [122]) og þarmed náskyldrar notkunar minna náttúru-gjæda, svosem eru Pottøsku-brennur af Sjóar-þángi [123]) og Øsku-haugum [124]), Sápu-gjørd [125]), Kalkverkan [126]), en eckert þyddust þau af því, ellegar færdu sér í nyt, ne heldur gèfua góda ávísun um Lèrepta-bleikingar [127]), Límbrúkun og þess tilbúníng [128]), fyrir hvad, einkum Húsblas-límid Landbústjórnar Félagid danska hefir þó álitlegum verdlaunum heitid í mørg ár; sárnar mér þad einkum þessvegna, ad mikil nægd fellur hér jafnast til af gódu hús-

[122]) Sjá Conferentsr. J. Eiríkssonar Rit um Sallt-gjørd í ísl. Lærd. L. Fel. R. I. B.
[123]) Sjá Assessórs B. Grøndal hjernm í VIII. B.
[124]) Sjá Prófess. O. Olafsson þar um í XI. B.
[125]) Sjá sama þar og Handlæknirs Sveins Pálssonar Rit um Sápu-sudu í X. B.
[126]) Sjá sama rithøfund hjernm í IX. B.
[127]) Sjá Assessórs B. Grøndals Rit í IX. B.
[128]) Sjá Prófess. Ol. Olafsson um Límtegundir í VI. B.

húsſblaſs=efni, ſundmøgum, ſem misjafnlega hyrdaſt og notaſt allvida, en øll adferd vid húsblaſs=gjørdina var þeim þó ſvo ýtarlega kennd [129]). Sømu afdrif fengu ønnur heilrædi med Ljáadengingar á útlendra hátt [130]) til hlífdar vid mínar litlu ſkógar=leyfar og til framqvæmdar gódum heyſkapi, ſvo mig ſkal ei furda, þó vinir mínir þreytiſt umſídir, ad leggja þeim rád, er eckért þvíumlíkt heyra vilja né hagnýta, en møgla þó æ yfir megurd og ørbyrgd minni. Hefdir þú annars, framlidna øld! gjørt þig eins fræga af fúſri vidleitni ad laga hvad ábótavant var medal barna minna, ad reyna med nákvæmni og prófa þeſſi og ønnur rád mér til heilla, ad halda vid ſtødugri framqvæmd í byrjudum gagns=uppátækjum, ad vernda ſérhvørja loflega tilraun mót vanvitſku og øfundar nidurdrepi, eins og þú efalauſt ert kunn ad vidburdum ad finna upp og leida fyrir ſjónir margt þad, er mér mátti koma ad heidri og haldi, þá væri mér meiri ſæmd ad þínum verdſkuldudu Eptirmælum.

Ecki má þad ſamt af þér draga, ad ýmſar húſs=ydnir framadir þú og eldir hjá mér. Mér til hamíngju ſá eg ſnældurnar fæcka, en rocka aptur innleidaſt, þó ſkot=rockurinn ſé mér aptur horfinn ad meſtu. Garnſpuni vard til góds gagns um tíma vída almennur,



[129]) Sjá ſama manns Rit í IX B. og Juſtitsráds Müllers í XI. B.

[130]) Sjá Próféſſ. O. Olafsſonar Rit í X. B.

einkum á nordanverdri mér, og yrdi þad framvegis þar og vídar, þegar børn mín sæu sér hagsmuni ad í kaupverdslun. Upphvatning fyrstu og ávísun hérum má eg, eins og þá ardsømu dønsku vesi, þacka Landfógeta mínum Skúla Magnússyni [131]), er leiddi klæda-vefsmidjuna inn í Reykjavík, en þó einkanlega gjafmildi míns ódaudlega Kongúngs Fridriks V, er skenkti mér efni til þessara og annara útvega minna, var þad ecki smárædi, er hann lét vid mig rakna af hendi til vidreistar mér þegar hann gaf til nýu innréttinganna í Reykjavík 61 þúsund og 300rd, og Landfógeta Skúla auk þessa 4800rd [132]). Og nú spyr eg med undrun: hvar sjást nú meniar alls þessa? hvad er ordid af allshåttar vefnadar tilfæringum, farfa-verki og øllu þessum innréttingum vidkomandi, reipslagara-skinna-verkunar og ødrum handverkum, er, eptir stadfestri samþyckt þess íslendska Félags [133]), reynast áttu og setjast í verk, og sem ásamt duggufiskirii, duggu-smídi og mørgu fleiru, svosem: jardar-, akur- og skógar-yrkju, var til-

[131]) Sem gaf út prentada ávísun um Garnspuna í 4to.

[132]) Sjá Deo, Regi, Patriæ, bls. 321. Note R. en í þeirri Summu vóru líklega Duggurnar Fridriks-gáfa og Fridriks-ósk sem nýju innrjettingarnar fengu og Prófastur Gunnar Pálsson þackadi í ljódum.

[133]) Sjá kóngl. stadfestingu af 4da Jan. 1752 þess samþyckta §. XIII.-XVI.

tilreynt med? [134]) sundurþyckja og Pröcessar hafa því öllu gjörendt og lagt leyfarnar í hvísra kaupskapar-félaga hendur, en — mér er það allsaman gjör-miſt, nema framför nockur barna minna og mun betri þecking sídan á spuna og vefnadi, edur medferd rocka og vefstóla, sem þó um þessar mundir koma þeim ad minna haldi, enn eg vildi, vegna kaupskapar- og annara breytínga.

Engu ad sídur fengu börn mín vid allt þetta þó meiri þeckíngu og reynslu, og hvert-tveggja hefir því leidt og mætti framvegis leida þau til enn betri eptirþánka, greindar og árædis og fæcka þeirra hleypidómum mót nýum framfarar vidburdum. Af annari nýbreytni sumri, er þú færdir mér, vard og gódur hagur. Ur því í ócfuin var komid og þau sleppt höfdu vída minni eldri og betri búnadar-reglu, ad komast af án mjölkaupa, en tóku svo mjeg ad freka þau sér til útörmunar, var þeim þó hagur ad kaupa heldur fyrir sama verd rúg- en mjöl-tunnu, edur 18 fjórdúnga rúg-tunnu ad minnsta kosti, í stad 15 til 16 fjórdúnga, er mjöltunnur jafnast halda, en mala heldur sjálf sinn rúg, og fá svo betra mjöl, og þartil vóru handqvarnir þeim haganlegar. Innleidsla þeirra vard fljótt almenn, því Kóngur minn gaf í nockur ár verdlaun fyrir tilbúníng þeirra hjá mér og sendi í fyrstu 200 vor

[134]) Sjá Deo, Regi, Patriæ, bls. 386-94.

-pér handqvarna géfins 135). Um betri til-tilbúníng þeirra reit ásamt Kaupmadur Busch 136), og Sýslumadur Bjarni Einarsson um Vatns-mylnur 137), sem þarvid sumstadar innleiddust og tóku hinum miøg svo fram. Sástú og fáeinar Vind-mylnur hjá mér, en færri urdu þó ad gagni, flestar vinda-smidi. Litlar eg mér yfrid hentugár Þófara-mylnur, en sárfáar komu og á gáng. Skraddara, skómakara, múrara, timburmenn, snickara, beikira, jurtagardsmenn, málara, handskamakara, sástú ad eins ad nafninu, en flestir hvurfu þér aptur eda heiktust vid handverk sín. Prentara átti eg lengi, en gódir bókbindarar bættust mér. Gull- og sylfur- og á járn smidir fjølgudu, og fengu hentuga vegleidslu, þeir fyrstu um gyllingu 138), þeir sídari um járn-smídi og stálherdslu 139). Frá Báta-smídi og veidibrellum Marstrendínga var þér sagt 140), og af Heyhlødu-byggingum 141), en vondud Bæa-bygging synd 142). Á eg ad nefna rádin um Grenitrés-ræktun hjá

135) Sjá Justitsrád C. Pontoppidans Handels-Magasin for Isl. 2en Deel Pag. 24-30.
136) J Isl. Lærd. L. Fel. R. 4. B.
137) Ritid útkom í Kaupmannah. 1781.
138) Sjá Gullsmids Sig. Þorsteinssonar rit í Isl. Lærd. L. Fel. Rita I. B.
139) Eiríks Bjørnssonar rit í III. B.
140) Af Kammersecret. O. Olavius í II. B.
141) Af ónefndum í XII. B.
142) Af Prófasti Gudlaugi Sveinssyni í XI. B.

hjá mér 143)? minna tel eg miklu í þau varid, enn Sveitabónda sama sonar mins, med hans aur Vidbætirúm 144), eda Athugasemdirnar vid hann 145); minna máske í tilliti til búnadar-hátta minna, enn í Olavii Rit um gras-tegundir og fódur 146), eda Markúsar Prests Ejólfssonar Heyannir 147), ellegar Sæmundar Prests Hólms Meltak 148), og lángtum minna enn í Olavii qver um Litunar-gjørd 149), Smjørs- og Osta-búnad 150). Ad eg nú ei nefni Bjarna Sýslumanns Einarssonar nýtsama rit um Terraneufs og Klippfisks-verkun 151), Jóns Sýslumanns Jacobssonar Mjólkur-not 152), Prófessor Ol Olafssonar Matreidslu Mjólkur etc. Ølbruggun, og Braudbøkun 153), eda Frú Assessorinnu Mørtu Maríu Stephensens Matreidslu Vasaqver 154), og fyrir utan ýmsar leturgjørdir, er eg hér ad framan hefi

143) Sjá þar VI. B. edur Landfógeta Sk. Magnússon um Trjevøxt.
144) Sjá sama í IV, V. og VI. B.
145) Sjá Sýslum. Magn. Ketilssonar Athugas. í VII. B.
146) J VIII. B.
147) J II. B.
148) J I. og II. B.
149) Utkomid í Kaupmannah. 1786.
150) Utkomid þar og 1780.
151) Isl. Lærd. L. Fel. R. III. B.
152) J XI. B.
153) J XII. B.
154) Utkomid í Leirárgørdum 1800.

hefi áſtundum tilnefnt, tel eg mínum Land-búnadi miklu markverdari gefin heilrædi og bendingar um Vatns-veitíngu af Mýrum, Heyfordra-búra ſtofnun og Heyſkapar míns gagnsmuni í ſamburdi vid Kornafla 155), en þó einkum ſama vyrdta vinar loflegu til-lögur um Almennings Viſta-búr til afléttirs húngurs naud í hallærum 156), lögdu fleiri vinir minir þá hid ſama til 157) og þó fleiri ádur fyrri 158), en — litid hafa allir þeſſir vidburdir vina minna í þeſſu tilliti enn fengid útrétt; eg hefi ratad hvört mótlætid af ödru med hneckir margs þeſs, er þeirra og annara ſona minna og vina margfeld gódvild gat upp-hugſ-

155) Sjá Amtmanns Stephán's Þórarinsſonar rit hjerum í konúngl. ísl. Lærd. L. Fel. R. II. XIII. og XIV. B.

156) Sjá ſama Tanker om Uaar og dets Virk-ninger etc. Kjøbenh. 1792.

157) Sjá I. Verkefni Lærd. L. Felagſins í þeſs Rita XI. B. blſ. 296-305.

158) Refnil. einna fyrſtur Barón Haſtfer eptir Deo, Regi, Patriæ, blſ. 338. fyrir 1756; ſvo Anonymus i Anmærkn. til Udtog af J. Snorreſen om Islænderes Agerdyrkn. indført i Oeconom. Journal 1758 Pag. 94, ſídan Stiptamtmadur O. Stephánsſon 1771. (ſjá hans korte Underretning om den islandſke Handels Førelſe fra 874 til 1788 Kjøbenh. 1798. blſ. 49-50). þareptir Stiptamtm. Pork. Fjeldſted 1783 í hans Prisriti om en nye Handels Indretning udi Island, Kjøbenh 1784 og 1787. Biſkup Dr. Hannes Finnsſon, ſjá hans rit um Mannfæckun af Hallærum blſ. 208. nótu 384.

hugsad og uppástúngid mér til hagsmuna. Bundna kaupheudlanin og hmsir þeir, er heunar anda fylgdu fyrr og sídar, hafa kollvarpad mínum annars svo vonarfullu nýu innréttingum og flestu ødru med lángvarandi óvild og vidleitni ad kéfja sérhverja framfarar vidleitni sona minna mér til vidreistar; þad er nægilega á prenti í ljós leidt í fjølda mørgum ritgjørdum, af hverjum eg þó þyrdi ei hér ad nefna fleiri enn míns Amtmanns Magnúsar Gíslasonar uppáskrift þann 6ta Octóbr. 1757 á Supplicatsíu embættismannanna þann 12ta Septembr. sama ár, eins og hún sést í míns Stiptamtmanns O. Stephánssonar Riti: Kort Underretning om den islandske Handels Førelse fra 874 til 1788, er útkom í Kaupmannahøfn 1798. bls. 55—57. í nótu r), en vísa þarhjá til nýnefnds Rits bls. 25 —26 og í stuttu máli til þess §. 5.

Undireins og eg þacklát vidurkénni ítrekada vidleitni margra minna ad hefja hag minn, medan þú dvaldir, gremst eg þinni øfundsýki gégn þeim og mér, þú ágenga og lausráda 18da øld! og syrgi þig ecki, en kýs mér samt, ad yngri systir þín færi mér marga jafnduglega og mér til verndar jafn-skørnglega vini og verndarmenn, en færri øfundsjúka. Eg vil um sinn lifa vid vonina, þó fáir viti hvørju fagna skal.

Þad er eitt medal annars, sem eg má hrósa þér fyrir, framyfir systur þinar, ad engin

in þeirra lét nálægt því eins mikið og þú af hendi rakna mér til viðreistar eptir eydileggjandi hardæri og í nandum, og engin vardi þvílíku, sem þú, til vidburda að fá mér blómlegann búníng. Það verdur ecki allt talið af mér, sem minir mildu fedur Konúngarnir, einkum V. Fridrik og VII. Christján svo örlátlega, lögdu til þess, og enn síður þackað, sem ber, því ætti eg allt að telja, sem í samburdi við annað meira, metst nú smálegt, yrði það undra mikið mál. Eg vil því hér að eins drepa á fódurlega umönnun þeirra við mig um og eptir miklu hallærin milli 1750—60 og eptir 1780, þó eg hér ei gæti talið mér eginlega veitt, hvað þeirra mildi, jafnframt í tilliti til míns eymdar-ástands, optsinnis eptirgaf og skénkti ymsum kaupverdslunar félögum, sem, ecki síður enn eg og ástundum máské einsömul, höfdu notið af.

Arið 1756 gaf Kóngur minn Fridrik V. mér 3000 tunnur matvöru, til gésins útbytíngar og afléttirs geysilegs hallæris þá. Sama árið sendi hann mér Barón Hastfer með 10 engelska hrúta til betrunar mínu fjárbragði 159), en — spönsku hrútana seinna vil eg ei nefna. Nockru ádur hafdi hann, sem ádur er sagt bls. 538, gésið nýu innréttingunum 61 þúsund 300rdli, auk þess er Landfógeti Skúli féck. Litið tel eg mig stodað hafi kostnað-

159) Sjá Prófasts Gudlaugs Sveinsonar Vatnsfjardar Annál sidari.

aduriun um sömu mundir og þar eptir til bygg-inga ýmsra múrhúsa hjá mér, svosem á Bessa-stödum, Nesi, Videy, Arnarhóli, hvar Tukt-húsid, stiptad 1759, á Kóngs og minn kostn-ad, átti ad hegna og fæcka vommum óráð-vandra og umgirda æru, líf, eigur og sidferdi manna, en aldrei fyrr né sídar komst fullnærri þessu augnamidi; skálkar fældust þad ei, heldur hrósudu þar ástundum vist, nádum og frelsi, og sumir nældu þar dáfallega. Þessi þyrnir míns auga, hefir mér ordid kostnadar og mædu-samur, og horfir þó svo, ad hann muni mig enn sárar stínga framvegis, en ei til batnadar í brád, eda til vidréttingar laganna hnignanda heidri. Ecki tel eg mér færi störum fram vid nýja Skólahúsid, eda nýju Múrkirkjuna í Reykjavík, heldur enn vid Múrkirkjuna í Vestmannaeyum, eda þá sem reist var á Hólum frá 1757 til 1763, af ölmusum Danskra og Norskra kirkna og 300 til 400rdla minna egin barna árlega í 6 ár [160]), sé þad satt, ad kirkja þyki þar nú óþörf eda óhentug. Þar á mót ber mér ad þacka Kóngslensid þann 18da Martsi sama ár, eptir hvörju ölmusum var safnad allstadar í Danmerkur og Nor-vegs kaupstödum til vidréttingar Hóla Bisk-

Mm ups-

[160]) Sjá sama Annál og Deo, Regi, Patriæ, bls. 322 nótu e. samauber og æfi Biskups Gísla Magnússonar prentada med Líkprédikun yfir hann, Hólum 1779 bls. 28-29.

ups-stóli og skóla; af þessum medtók sá nafnfrægi Biskup i Sjálandi Dr. Balle árid 1783 leyfar, frek 900rd.[161]) af formanni sínum, þeim góda Biskupi Harboe, en nú er eg viss um, ad med þángad til og sidan áföllnum rentum, á eg þar ytra á rentu nálægt því tvöfaldt; svo hafa þessir peningar varid undir þeirra umsjá mér til gódes, og yfirmenn minir hafa árid 1797 sameiginlega rádlagt, ad til lærdóms framfara um mig alla, verdi þeim varid [162]). Seinna vil eg minnast nockud á gjafmildi Kónga minna og annara vid Presta mina, en flýta mér nú ad nefna fódurlega hjálp og umhyggju mins nú ríkjandi mildasta Konúngs VII. Christjáns, í seinustu miklu hallærum 1785. Litid þókti hönum þá í fyrstu ad hafa gefid 300rdl. til byggingar eydilagdra jarda i Þingeyar edá fleirum nordur- og austur-lands sýslum; litid ad hafa 1783 um haustid sendt hladid skip med gefins tymbur og kornvörur til Hafnarfjardar til hjálpar þeim naudstöddustu húsvilltu, er flúid höfdu undan jardeldsins yfirgángi [163]); litid

[161]) Sjá Cancellie-bréf af 24da Sept. 1796 til Stiptamtmanns, Biskupa og Amtmanna hjer um þetta, og Biskups Dr. Balles Pligtanker 1793. S. 489-92.

[162]) Sjá nefndta svar uppá Cancellie-bréfid 1797.

[163]) Sjá M. Stephensens Beskrivelse over den nye Vulcans Ildsprudning 1785 Form. bls. VII.

litid ad senda 80 lesta tymburfarm á Eyrarbacka 1785 til sömu hjálpar þeim i Arnessog Rángárvalla-syslum, sem miklu jardskjálftarnir 1784 höfdu svipt bæum og eignúm og naudstaddir vóru [164]); litid ad hafa sama ár skipad, ad færa 2 skipsfarma af fiski ad vestan til mins Nordurlands þurfa-manna, og i sunnan frá mér til austfjarda, hvert flutnings kostnadur hljóp til 1,762rd. [165]) og ljed 2 kaupfer til annara innanlands naudsynja-flutninga; hann let auk alls þessa mikinn fisk á höfnum eptirstanda bjargarlausum til forsorgnunar; flytja norskann skipa-vid á Hafnarfjørd og Olafsvik handa snúnu sveita-fólki, ala onn fyrir þess húss-nædi; baud ad veita heim, er ei gætu borgad, lán í kaupstödum á hellsu.lífsnaudsynjum þeirra; leysdi fyrst þann 10da Decembr. 1783 og aptur þann 9da Febr. 1785 ad safnad væri gódfúsum ölmusum um oll ríkin, til adstodar þeim, er i vesæld komust vid jardelda og landskjálfta þessi árin; gaf þann 15da Júní 1788 Islands kauphöndlun 57 þúsund 462rdli 48 ß. til skada bóta fyrir útsendingu árid ádur til min, hellst til mins Nordurlands og Austfjarda og nockurs hluta Sudurlands, á yfrid miklum matvørum til

Mm 2 bjarg-

[164]) Sjá kóngl. Urskurd þann 9da Febr. í 5ta B. isl. Lærd. L. Fel. R. bls. 291.

[165]) Sjá Jústitsr. Pontoppidans Magazin for almeennyttige Bidrag. II. Deel 1793 bls. 350.

bjargar bornum mínum [166]) Samþyckti þann 22ann sama mánadar, og árs, ad kornvöru sendíng þá til mín yrdi aukin til 26 edá 28 þúsund tunna [167]), og baud þann 13da Júlí sama ár ad senda Nordurlandi auka-fordá af 3,499 tunnum kornvöru, er kostudu Hann 18 þúsund 360rd. 72 ß. [168]), hefi eg þó enn ecki talid 790rd. árlega, sem þessi minn mildasti Fadir örlátlegast gaf í nockur, eg hygg 6 ár, til vidhalds Hóla Biskupsstóli og skóla, um sömu mundir, né svo mikid sem nefnt, adrar Hans eldri og yngri óteljandi Nádargjafir, mér og mínum nærlungar-útvegum til vidrèttingar, hvad og yrdi hér hellst oflángt umtals-efni [169]), þar eg og sídar fæ framar tækifæri ad drepa á fedra minna staklegu nád vid ymsar stèttir sérílagi mér til góds, svosem: Kennidóm, Læknara, Kaupmenn og fleiri, hvörra eg síst gleyma ætti ad þacka Hans staklegu nád ofan á alla adra, eptir lidin þöllæri ad skenkja 500rdli, ad mig minnir, til upprèttingar farfa-verks og þófara-mylnu á nordan-verdri mér, til hvörs mörg fleiri

börn

[166]) Sjá Sama bls. 349-50 og sama Felags R. Bindi 5ta bls. 293.

[167]) Sjá sama bls. 291.

[168]) Sjá Pontoppidan á sama stad.

[169]) Um ýmsar nádargjafir Kónganna Fridriks V. og Christj. VII. bera þau nafnkjendu Rit: Deo, Regi, Patriæ, Forberedelsen til Olavii Reise, og konúngl. isl. Lærd. Lista Ritin ásamt Lögþíngisbókunum, augljósust vitni.

børn mín løgdu og sína skérst. Hans nád og þeirra gódvild var hin sama, þó allt þetta yrdi ad engu, mér til óbætanlegs ángur-meins. Hefdu menn látid sér nægja litlar þófara-mylnur, eins og hér fannst líklegt dæmi uppá, eda jafnvel einsamalt tunnu-þófid, sem fyrri, mátti farfa-verkid, sem mér var mest-árid-andi af øllu og hvørs eg lengi sárt saknaí, vel komast á gáng, og børn mín mørg þarmed fríast frá útdráttarsømum, en óvøndudúm klæda-kaupum med tímanum, og smá-venjast vid ad vinna sér þau flest sjálf; en — hér uppát møgur kyr þá seitu, stóra þófara-mylnan farfa-verkid, af því kostnadurinn og var heldur seint samanreiknadur.

Ad dæmi Kónga minna breyttu mínir ørlátu Brædur í Dánmørku, Norvegi, Furstadæmunum, og nockrir egin synir mínir, er megnudu. Þad skal votta um aldur og æsi miskun þeirra og mannkjærleika, sem þeir ørlátlegast skenktu mér til vidréttingar 1784 og 1785; já fríviljuglega skenktu hvørr í kapp vid annann, þarsem Collectu-gáfan frá høfudstadnum Kaupmannahøfn eginlega til Skaptafells-syslu, vard = = 9,704rd 25½ ß.
en frá ødrum ríkjum og løndum míns Konúngs, til mín allrar = = 31,831 52

Þad vóru alls 41,535rd 77½ ß.
Af þessu vóru mér til góda útilátin og brúkud 9,706rd 79½ß.

til nýárs 1798, þó átti eg þá eptir á rentu standandi, og med þángad til vidlögdum afgángs rentum [170]) aukinn höfud-stól til = 47,822rd. 53 ß.

Í því fór mér til vissu fram, um þinn hérvistar tíma, mín framlidna! ad aldrei átta eg fyrri peninga-summur á rentu standandi. Margir urdu til ad tolla mér, flestir af góðvild, nockrir af naudúng. Eg vil telja fleiri af hinum fyrst, svo sem mér kjærri, og undir eins ecki gleyma þess vinar míns ást og framqvæmd, sem máské eginlega vard fyrsta orsökin til þessarar drjágu Collectu, eg meina hér forn-vin minn Jústitsráð Carl Pontoppidan, sem hann 1ta Octóbr. 1783 sókti hjá Konúngi mínum um leyfi Hans til, ad henni mætti safna [171]).

Ad bæta úr bágindakjörum míns Kénnidóms létu margir sér hugarhaldid um. Minn frægi Biskup Dr. Finnur Jónsson útvegadi þeim fátækustu Prestum í Skálholts-stipti árlega 200rdla til ctóner reiknada nádar-gjöf af Kóngi mínum þeim sæla Fridrik V. árid 1754, þá þessi Biskup minn vígdist, hvörri eptirmadur ríkisins Christján Kóngur minn VII.

enn

[170]) Sjá Lögþíngisbókina 1798 bls. 40-41, hvar þessi reikníngur gjörist enn vissari, enn í Justitsráds Pontoppidans Magazini for almeennyttige Bidrag II. Deel S. 349-50.

[171]) Sjá hans Magazin for almeennyttige Bidrag II. Deel S. 325 í nótu.

enn framheldur[172]; sömuleidis framheldur hann enn síns kónglega Födurs Fridriks V, árlegu gjöf 100rdm króner til fátækustu presta-kalla í Hóla-stipti, sem minn sæli Biskup Gísli Magnússon einninn útvegadi þeim, eptir þad hann vígdist til Biskups árid 1755 [173]., og auk þessarar árlegu nádar-gjafar, 700rdli til króner, sem árid 1757 vóru á Flugumýrar presta-stefnu útskiptir til hjálpar fátækustu Prestum og prestagördum, sem þá höfdu mest mist í hallærinu [174]. Hann ávann þad og, ad Köngsbréf var útgéfid þann 18da Apr. 1761, ad allir Prestar, sem ei hefdu embættis adsetur, eda ættu bújörd í sókn sinni, skyldu fá útvalda hentuga bújörd. Minn sárt og lengi syrgdi Biskup Dr. Hannes Finnsson birjadi og sitt Biskups embætti, med því ad supplicera þann 17da Mai 1777, fám dögum eptir þad hann vígdist í Kaupmannahöfn, til konúnglegrar Hátignar um adstod fyrir fátækar Prests-eckjur míner, og feck þarmed útvegad þeim árlega 200rdli í Skálholts og 100rdli í Hóla-stipti af Póstkassanum, sem nádar-gjef [175]. Köngsbréf 2 um



[172]) Sjá Æfisögu Drs. Finns Jónssonar, Kaupmannah. 1792 bls. 18.

[173]) Sjá Líkprédikun yfir Biskup Gísla Magnússon, Hólum 1779 bls. 29.

[174]) Hvört þessir 700rd. hafi verid partur af Collectunni sama ár, hvörrar gietid er hier ad framan bls. 545, veit eg ei med vissu, þó þad se líklegt.

[175]) Sjá Æfisögu Biskups Dr. Hannesar Finnssonar, pr. í Leirárgördum 1797 bls. 24:25

tilløg af betra lagi Presta-køllum til út-þentra fátækra Presta, útgéfin þann 14da Febr. 1705, léttu og uockud undir naud-þess-ara, einkum sídan Kóngsbréfin þann 7da Mai 1735 og 5ta Júní 1750. §. 7. gjørdu søsnun þessara tillaga greidari. Fátækra Presta-eckna kjør bætti og Kóngsbréfid af 5ta Júní 1750, sem áqvardar þeim Pensiónir af Presta-køllum, bújardir og adra adstod.

Biskup O. Tidemann í Christjanssands-stipti í Norvegi glæddi svo gódvild sins stiptis Geistlegra til min, ad þeir 1775 og í mørg ár þareptir legdu saman og sendu álitlegann pen-íngastyrk mínum fátækustu Prestum, hvørn skenk Prófastur Gunnar Pálsson og Kolbeinn Prestur Þorsteinsson í allra nafni þøckudu í látinskum ljódmælum [176]). Seinasta gjøsin var til Presta í Hóla-stipti sérílagi, hvørja Stipt-prófastur Mag. Hálfdan Einarsson og Jón Prestur Jónsson einninn þøckudu í ljódum 1782 [177]), hvør minn sártsaknadi mikli ástvinur Con-ferentsrád Jón Eiríksson ári sídar lét prenta og sendi Biskupunum í bádum ríkjum med fyr-irbón fyrir Presta mína. Af þessara gódfúsa erlæti bættist þeim fljótt álitleg summa, hvørrar útbýtingu og rádstøfun Kóngur minn þann 7da Apríl. 1784 fól vidkomandi Biskupi og Amt-manni

[176]) Sjá þeirra Charis Islandica 1776, og Dr. H. Finnsson um Mannfæckun af Hallærum bls. 176 nótu 281 b).

[177]) Sjá Kóngsbref af 7. Apr. 1784 hjá Fogtmañi.

manni á hendur, og lökfins varð hún eptir fkilagrein, er Conferentsráð Jón Eiríksson þarum opinberlega gaf [178]) 1786, alls 4,586rd 21 ß. Er þetta þó minnst af því, er eg þacka mätti þessum mínum tryggdreynda vini.

Héráð auk minntist min árlega með velúverdum gjöfum í nockur ár til fátækustu Prestseckna, sem ómegnni bundnar vóru, og til kostgjæfinna og fidugra skólapillta, vinur minn Etatsráð Andrés Holt, og Biskupinn í Sjálandi Lodvik Harboe gaf fátækustu Prestum mínum í einu 200rdli; Frímúrarar sendu mér frá samkundu þeirra Zórobabel í Kaupmannahöfn 100rdli. til ennå nauðstöddustu, og hulið góðmenni á Holsetalandi lét Saganeistarann Jústitsráð Christjani koma á framfæri til mín 100rdla skenki til þeirra, er skaðræði bidu af Skaptafells-sýslu jarðeldum. Geheimeráð og Stiptamtmaður Ove Høegh Guldberg sendi og tveimur mest þurfandi Prestum í Skálhollts stipti ölmusu [179]). Kongur minn gaf Prestum mínum og í bágu árunum hlutdeild í þeim fyrrtöldu 9,706rd 79½ ß. [180]) af Collectu-peníngunum, sem mér vóru sendir smámsaman til viðréttingar mínum bágbornu bjargræðis vegnum og til að afletta húngri, en — hvað hafa Prestar mínir og fátækir



[178]) Í Minerva fyrir Octóbr. 1786 bls. 497-501.

[179]) Sjá Dr. Hann. Finnsson um Mannfækkun af Hallærum bls. 176 nótu 271 b).

[180]) Sjá bls. 549.

meira ad þacka egin børnum mínum, er hjá mér hýrdust um þinn samverutíma? Mér er, því midur! sumt úr minni fallid, þó mun eg telja ega gjøf Gudmundar ríka Þorleifssonar 1720 á Prestasetrunum Prestbacka í Hrútafirdi og Brjámslæk á Bardaströnd; og sjálfsagt Biskups Mag. Jóns Arnasonar á fullum 2000rdm. í jørdu til Presta, nefnilega: Garpsdal, Strønd í Selvogi og Berufirdi, í Múla-sýslu med beggja hjáhýlum; Arnarbæli í Grímsnesi; Geitagili, Veigastødum og Hafósi. Sømuleidis Orms Sýslumanns Dadasonar, á ýmsum jørdum til kirkju ad Saudlauksdal, og til Garpsdals Prests, og Prests og kirkju á Skardsstrønd. Olafur nockur Olafsson gaf Hlýdarhús og Ananaust hjá Reykjavík Presti og kirkju ad Helgafelli; en Bogi og Elín, Benedicts børn frá Hrappsey, reistu kirkju ad Dagverdarnesi 1758 og løgdu Presti þar til uppheldis 5 hundr. þess, og jørdina Nýpu [181]).

Til ad kénna námgódum, skickanlegum munadarleysíngjum í Eystrahrepp í Arnessýslu bóklestúr og skriptir, gaf Frú Sigrídur Jónsdóttir, Eckja Biskups Jóns Vídalíns, jørdina Hrafnstóptir þann 15da Júní 1739, og til uppfrædingar fátækum børnum í Saurbæjar-sókn á Hvalfjardarstrønd, gaf Þorvardur Prestur Audunarson jørdina Rambs-

181) Sjá Dr. F. Johannæi Histor. Eccles. Isl. T. III, pag. 510.

Rambshól í Svínadal. Rector Skóla Jón Þorkéllsson gaf 1759 ýmsar jardir og adrar eigur sínar, er töldust hérum 4000rdlá vyrdi, til Barnaskóla-stiptunar í Gullbríngu-sýslu, til góds uppeldis og mentunar fátækum börnum úr sömu sýslu. Skóli þessi var med framgángi míns Stiptamtmanns Olafs Stephánssonar upprettur á Hausastødum árid 1791, hvar 16 úngmenni sídan hafa notid uppeldis og kénnslu. Ohapp, sem gjafaráns skenkur á fyrstu árunum eptir hans dauda ratadi utanlands, hvar hann var á rentu settur, olli því; ad árid 1783 átti þessi hans stiptan á rentu, auk jardanna, ein 5700rdli, en í árslokin 1793 hljóp hofudstóllinn, er rentu bar utanlands 8,850rdli [182]).

Nálægt burtfør þinni gaf minn rausnarog medaumkunarsami Stiptamtmadur Olafur Stephánsson til fátækra nota í Skagastrandar hrepp og æfinlegrar eignar þeirra, 1000rdli í gódu jardagótsi, er hann undir eins frá sér afhendti og afsaladi. En — mørg hundrud, ad eg ei meira hermi, fátækra, sem góbvild hans og örlæti ega ad þacka líf sitt og sinna, ecki síst í ollum hallærum, mega og munu vidurkénna, ad þessi gjøf hans er hinum til voladra miklu minni. Nyktid þar um duldist ei minn milda Konúng med ollu, þegar hann árid 1786 sendi og gaf þessum mínum

[182]) Sjá Biskups Dr. Balles Pligtanker 1793 bls. 485.



um elskaða Stiptamtmanni þann stóra verðlauna pening: Pro Meritis, eða fyrir forþénustur, í gulli, til æru og vyrðingar-merkis fyrir hans staklegu góðgjørðir við fátæka í hallærinu og aðra bæði þá og fyrri auðsynda føðurlands ást og dugnað, eins og áður er á prenti orðað og sýnt [183]).

Merkilegastar Bókagjafir til Kirkna og Klerka eru: Dansks borgara í Kaupmannahøfn að nafni Stiestrups, sem árið 1756 keypti og gaf hingað fjølda af Biblíum og nýa Testamentinu, prentuðum 1747 og 1750 í Munaðarleysingjanna húsi í Kaupmañahøfn, og Bóksejara Søren Gyldendals, sem árið 1783 gaf hverri aðalkirkju á Íslandi, Biskupsstólunum og Skólunum, hverju fyrir sig, 1 Exemplar af Kammersecretéra Olafs Olavii Ferðabók um Ísland, og eðlaðist fyrir þá gáfu, af Kóngi minum Agents nafnbót [184]).

Til Hóla-Skóla gáfu ýmsir og góðar bækur í fleiri ár [185]) og loksins einhver hulinn mannvinur minn Lands-Uppfræðingar Félagi nockrar [186]) auk 50rdla verðlauna, er hann lét nockrum heita fyrir ýmislega atorkusemi [187]).

En—

[183]) Í kóngl. ísl. Lærd. L. Fel. R. 6. B. bls. 268-69.
[184]) Sjá somu Rita 3. B. bls. 287-88.
[185]) Sjá somu Rita 9 B. bls. 298-99. 10 B. bls. 320. og 11. B. bls. 295.
[186]) Sjá Tíðindañá. I. B. bls. 475-76.
[187]) Sjá somu bls. 479.

En — ad telja allt hvad Kóngar minir og adrir hafa kostad til bóka-útgáfna og bóka-gjafa fyrir mig, er mér nú ófært, bædi veglia þess, ad sumt er mér enn ókunnugt, en í sumu tekur mér ad skjátla med minni. Alkunnugar eru: samt Ferdabækur Lögmanns efnisins Eggerts Olafssonar ásamt hans Lachanologia eda Maturtabók, og Kammersecretera Olafs Olavii, ásamt hans Urtagardsbók, hans ágætu ritum um Fiskiveidar og Nétatilbúníng 1771, um Smjörs og Osta-búnad, og um Litunargjörd; hans Talnalist, og Stiptamtmanns O. Stephánssonar Undirvísan í Reiknings-listinni og Algebra; 1000 qver af Hosters Agripi af Bibliunni; Björns Prófasts Haldórssonar Atli og Grasnytjar; Magnúsar Sýslumanns Ketilssonar Saudfjárhirding og Tilraunir med Sádtegundir og Plöntur; Kofod um Jardeplanna ræktun og nytsemd; Þórdar Stúdents Þórodssonar Þánkar um Akuryrkju; Bjarna Sýslumanns Einarssonar um Vatnsmylnur; Buchwaldts Yfirsetu-qvennaskóli, útlagdur af Prófasti Vigfúsi Jónssyni og Saxtorphs Yfirsetu-qvennafrædi útlögd af Lands-physico Jóni Sveinssyni.

Fleiri mér vidvíkjandi ritgjördir hefir Kóngur minn og adrir studt, og framad, þó ecki hafi þær mér híngad til gefnar verid, og sumar meir eda minna, séu mér nytsamar, tel-eg med þeim Kristinn-rétt Þorláks og Ketils

út-

útgefinn 1775 [188]); Rectors Mag. Hálfdáns Einarssonar Sciagraphiam Histor. Literar. Isl. edur Lærdóms-rita fráſøgu, útkomna 1777, ſem ári ſeinna ávann honum 3 minnispeninga til heidurs, frá því konúngl. húſi. Øllu framar tel eg hérmed Biſkups míns Drs. Finns Jónsſonar Kirkju Hiſtoríu í 4 Bindum í 4to útgefna á opinberann koſtnad; og í tilliti til hjálpar til eyr-grafinna málverka, Möhrs íslendſku Náttúru Hiſtoríu og M. Stephenſens Fráſøgu um Eldgoſid i Skaptafells-ſýſlu, á dønſku útkomna 1785.

Þegar nú verdur talid til, hvad mikid af øllu framanſkrifudu reiknaſt megi med gjøfum barna minna mér til góds, má eg undirtaka umqvørtun tveggja vyrdta-ſona minna [189]) ad ørlætid til kirkna, Kénnimanna og gudlegra ſtiptana, ſem allt ad Sida-ſkiptunum géck fram úr øllu hófi, breyttiſt eptir þau og allt til þeſſa dags, hjá mér einkum, í óþockalegann ſvídingshátt og nídſku, þarſem þinn þenkingarháttur var, ad ſá væri fremſtur madurinn, ſem meſt gæti dregid af øllum þeſſum og undandregid, ſvikid og tælt í øllum gjøldum, vantadi þó ei ad børnum mínum væri ſkeruglega fyrir ſjónir leidd, bædi naudſynin og ſæmdin

ept-

[188]) Sjá Forberedelſe til Olavii Reiſe Pag. CXXX.

[189]) Sjá Biſkups Dr. Finns Hiſtor. Eccleſ. Isl. T. III. pag. 508-509 og Biſkups Arna Þórarinsſonar om geiſtlig Gavmildhed §. 10. 60-62.

eptir upplýstari þjóða dæmum, að leggja nockud til af egin ramleika mér til vidreistar [190]), en — hér vär fleirstum, sem heyrnar lausum, þulið ætintíri, öllkt framandi þjóðum, einkum góðfúsu dønsku og norsku fólki, er keppist, sem eg héyri, vid adra, að vidhjálpa sátækum frívilljuglega med mestu stórgjøfum, stipta skóla og allsháttar gódar stiptanir á egínn kostnad ár frá ári, svo í flestu tilliti er ei offagt um mig, að aum er eg, og aumari medfram gjørir mig í mørgu amlódaháttur og óþockadómur barna minna.

Litt eg nú á allt undanfarid, er eg nú taldi um þig, syrgi eg gódvilja þinn í eðru enn útlátum sona minna mér til handa; syrgi ónýtta vidburdi vina minna að fá hag minn hafid; syrgi þig, því eg óttast að systir þín verdi mér í raunum varla í øllu að þér, en fagna þó medfram, að margri mædu, hardindum, stórsóttum, pest, mannfellir, og ýmsri óvild og óláni, er að mér stefndi medan þú dvaldir, er um tíma aflétt, þó fáir viti hvørju fagna skal.

Fari eg að minnast á kaupverdslunar form og breytingar medan þú dvaldir, rísa mér øll hár á høfdi, og vil því vera sem fáordust um þetta efni, heldur að eins geta þess hér, að

190) J Biskups Arna Þórarinssonar meistaralega riti 1770 om geistlig Gavmildhed, á hvørt þó hefir dropid blettur §. 65, er vitnar um mannlegann og þó einkum úngdóms breiskleika. Eta stycki

ad band minnar kaupverdslunar undir misjafna taxta og verdslunar-følog, vard og band á flestum bjargrædis útvegum mínum.

Kompagnie eda kaupskapar-félaga verdslan á mér útarmadi í 104 ár sonu mína frá 1602 til 1706. Þó var kauphøndlan mín forpøktud til ádgreindra kaupmanns-húsa, helst í Kaupmannahøfn allt ad 1733, fyrir 20,190 rdla árlegt afgjald allt ad 1724 [191]), og þadan ad 1733 munu optast goldist hafa 20 til 23 þúsund ríkisdala í árlegt kaupskapar afgjald [192]). Aptur hófst ný Compagnie-kauphøndlan 1733 og vidhéldst til 1743 fyrir 8000 rdla árlegt afgjald. Þá tóku Kaupmannahafnar Hørkramarar í félagi ad sér mína kauphøndlun allt ad 1759, fyrir 16,100 crónur í árlegt afgjald, en mistu hana þá fyrir illa breytni þeirra vid mig [193]). Þetta kauphøndlunar félag var mér eitthvørt hid grimmasta, drap hidur og kollvarpadi mínum nýju innréttingum, og med þeim bjargvænlegustu handydnir, lét í hallærunum matar-innflutning milli 1752—1758 bresta, og drap þarmed fjøldann af þeim ad minnsta kosti 8000 manna, er, þessa vegna teljast fallin í

þann

stycki þessa Rits, er einka vel samid og íhugaverdt, eins hid 7da þegar §. 65 skúrast.

[191]) Sjá Stiptamtm. O. Stephensen om den islandske Handels Førelse bls. 19-20.

[192]) Sjá Deo, Regi, Patriæ, bls. 106.

[193]) Sjá Stiptamtm. O. Stephensens sama Rit bls. 25-27.

þann tíma [194]), þó var af þessu grimma Félagi keypt fyrir eptirgjöf hálfs afgjalds í 3 seinustu árin, að sleppa allri höndlun á mér 5 árum fyrri enn lénið var útrunnið. Frá 1759 til 1763 var hér kauphöndlan færð á Kóngs reikníng, en frá 1764 til 1774 komst mín kaupverdslan enn á ný á Compagnies vald, nefnilega þess svo nefnda almennilega Kauphöndlunar Félags, sem árlega gjalda átti fyrir þetta einka-leyfi 7000rdli. Þetta Félag sendi mér árið 1768 skémmt og óheilnæmt mjöl, og varð fyrir það dæmt af Nefnd manna þann 8da Febr. 1772 að gjalda í bætur 4400 rdli, sem settir vóru á rentu, og af þeim síðan goldin ýmisleg verðlaun til uppörvaníngar og frama bjargræðisvegum mínum, einkum jarðyrkjunni, alls hlaupandi til ársloka 1797 til 3187rdla 87 ß., en á rentu stóðu þá eptir 5394rd 71 ß. [195]), eru það þessir skildingar, hvörjum eg bls. 550 taldi að mér hefði tollað verið af nauðúng. Kóngur minn Christján VII. leyfti til sín eignir þessa Compagnies, minni kauphöndlun viðkomandi, árið 1774 fyrir 300,000rdli [196]), og lét síðan fyrir sinn reikníng færa hér kaupverdslun allt að 1788, því fyrstir Kaupmenn gátu birjað hér 1787 með egin höndlun, enn þótt hún væri

Nn oll-

[194]) Sjá sama Riti bls. 25-28.
[195]) Sjá Løgþingisbók 1798 bls. 40-41.
[196]) Sjá Forberedelse til Olavii Reise bls. XCVII.

öllum undirsátum míns Konúngs frigsfin feint á árinu 1786. Sídan vard sú lengi eptir-þreyda fríhöndlan hjá mér innleidd, og fannst ad sönnu í fyrstu ýfrid þúngbær allvída, en hefir þó seinna meir betur rádist enn áhorfd-ist og fremur hinum bundnu höndlunar form-um stórum endurlífgad ýmsa bjargrædis at-burdi, jafnád verdlag á inn- og út-lendum varníngi, mergum til hagsmuna, en, því mid-ur! ásamt fjölgad naudsynjum manna med ó-hófs og munadarlífis og dýr tídar innleidslu á flestu, er medþarf til lífs uppheldis.

Hjá óvildar þrasi, yfirgángi enna fyrstu kauphöndlenda nockurra, níd-ritum þeirra um börn mín og þessara forsvari gégn hinum geng-eg hissa, gröm og þegjandi, því systir þín ein, þegar hún eldist betur, mun fyllskorinordt og réttvíst meta þau málefni, og réttvísar og öllu heldur án mannqreinar álits, enn þú ofund-sjúka og flærdarfulla öld! sem ofmjög varst gefin fyrir rógburdi, unutir smjadri, letst þig einatt fleka af hleypidómum, dróst þig helst í hóp þann, hvar best þókti gánga, múlbundin mér til varnar, en reidubúin ad ýfa þar upp illa gróin sár mín, er þú hugdir þér mundi einhver hefdar eda vinnings vegur ad verda.

Taxtana vil eg því ad eins nefna, um þína tíd: sá fyrsti útkom þann 10da April. 1702, og gyldti til 30ta Maí 1776; þenna sídar-nefnda dag og sam ár kom út nýr, sem gyldti til 1787. Þá var fyrir þad ár út-

gésin

gêfin svonefnd Taxatarif, er einúngis gyldti þad árid; sídan hafa prísar á øllum varn-íngi svo ydduglega, já daglega breyttst og verid svo ólíkir um mig alla, ad eckért stendur á stødugu. Þad hygg eg samt furdu, ad tunna mjøls, sem vid komu þina géck á 80 fiska, géck undir burtfør þína sumstadar á 8 jafnvel 10rdli, og fiskavætt og gamall saudur í stadinn 40 fiska fyrrum, á 4 og 5rdli, hvørt um sig.

Hjá mér ødludust 6 kauphøndlunar pláts Kaupstada-nøfn, en þó lendti um þína tíd ad eins vid einhert nafnid hjá ødrum enn Reykjavík minni, og von hafdi eg nockra um minn Eyafjørd. Reykjavík vard fljótt fjølbygd og apadi eptir útlendra kaupstødum, eptir því sem færi gafst til, í munadarlífi, metnadi, prakt, svallsemi, lystugheitum, og ymsu, er reiknast til ens fína móds. Hún setti øllu fremur, ásamt líf í innanlands kauphøndlun og bjargrædis vegu, fjølgadi þeim og jók þá elldri, ásamt óvenju dýrtíd um marga parta mína, og hún vard skjótt minn einka Høfudstadur, ádur ad sønnu fræg, frá nýju innréttingauna tíd, en í þessara tilliti, einkum vefnadarskólans, um þinn vidskilnad ófræg af því, ad þær og hann í henni dóu øldúngis út med þér. Haldi nockurr, ad øfundsýki hafi í stadinn reist þar sinn skóla fyrir egingirni, partiska flockadrætti, rógburd og baknag til eginn frama, en til nidurdreps minna sønnu vina,

skal systir þín á síðan votta, hvörsu illa mér færi að þræta um það.

Þó mun eg alla tíð syrgja að mér kom til svo lítills sú dýra, og nú útdauða-klæða-vefsmiðja þar, sem nefnd er bls 538, og til lítils, að sönnu, henni fylgjandi þófara-mylna og farfa-verk, en að þó enn minna gagnaði minu Norðurlandi hvörttveggja, þar sem mér gafst þó einhvörntíma um það svo-líkleg von [197]; til lítils urðu mér í þinni tíð fyrirheitin verðlaun [198]), fyrir útlærða Lín- og Ullar-vefara, Hattamakara, Sútara, Færaspinnara, Járnsmiði, Snickara, Beykira, Timburmenn, Múrara, Steinhöggvara og aðra handverksmenn, er tæki sér bólfestu í mínum kaupstöðum, því svo fáir, sem engir girntust þau, eða urðu mér að haldi [199]); til lítils verðlaun, heitin fyrir sérlega smáann ullar, bómullar, hörs- og hampspuna, vefnað og vefnaðar kénnslu, og gjöf af vefstólum, rockum, hespu-trjám, heglum og annnari hjálp [200]). Eckért kom í dugleganu, og flest í engann gáng, heldur dodnaði niður, eins og jarðar-ræktin; hvörki gátu hana né kálgarða-rækt, skógarviða plöntun, korns,-jarð-

[197]) Sjá Tilskipun um Kauphöndlun og Skipaferð á Íslandi af 13da Júní 1787 Cap. 3 §. 13. og þessi Eptirmæli bls. 548.

[198]) Sjá sömu Tilskipun í sama Cap. §. 11. 13, 14-16.

[199]) Sjá hjer að framan bls. 540-42.

[200]) Sjá sömu Tilskipun á sama stað.

jardepla og annara matjurta afla og umhirdingu lífgad á ný losud verdlaun, undir þinn vidskilnad [201]); litid eitt máské ædarvarp framad, en þó fékk þad ecki verndad þenna mer dýrmæta fugl fyrir skot-hrídum illviljadra eda ágengra manna, ad Kóngur minn lagdi stór-sektir [202]) vid dráp hans, því réttlaus má hann enn fyrir ómildum allvída falla, af því svo fáir láta sér annt um ad halda vid þeirra laga heidri, er hann vernda ega; ecki fengu þau brennusteins-námur vidrétt, þó ardsamar verda mættu, sem vottast þar af, ad árid 1798 vóru frá Húsavík útfluttar 250 Centner edur 10 fjórdúnga-vættir af hreinsudum brennusteini, og seldar hvør allt ad 6 rdlm, sem þá verda fyrir allar 1500rdlr, en 1799 vóru þadan útfluttar af sama 350 samslags vættir, og hvør þeirra seld á fulla 8rdli, komu þá fyrir allar 2800rd. Vilji menn nú seinna árid, eptir fengnum líklegheitum, reikna innkaup brennusteinsins eins og 1796 á 10 ß. lísipund, edur fyrir 2187½ lísipund hérum = = 228rd,
og til hreinsunar 17½ tunnu lýsis á 20rd. edur = = 350,
Inspecteurs og verkamanna laun vid verkid hérum = = 340,
og til ens fyrstnefnda 10rd. af hundr-

 ad,

[201]) Sjá sama stadar §. 6.

[202]) Sjá Tilskipun af 13da Júní 1787 Cap. 3. §. 7. og hjer bls. 533.

ad, er vid brennusteins sølunu útkom,
verda þad . . . . 280rd,
og 48 ß. á hver 100 pund í fragt
edur fyrir 350, 10 fjórdúnga vættir 175

hellsta og mesta kostnadinn þessvegna alls 1375
láta þeir, dregnir frá fyrstnefndum
2800rdlm, eptir . . . 1427rd.
í ávinning umgétid ár. Ecki fremudu heldur heitin verdlaun salltgjørdina, ecki vatnsveitíngar af mýrum, ecki móskurd í stad tadbrennu, ecki hvala- hákalla- sela- laxa- sildar- og kola-veidar, ecki reka-vidar adflutnínga [203]), og ecki fengu þau þig vakta til gagns af inngrónum dofinleika.

Hvad skal eg segja um opinberar stiptanir? nýjar bættust mér um þína tíd, en nockrar lidu ad mestu undir lok. Lærdóms bøt í mínum fyrrverandi látínuskólum ad Skálhollti og Hólum átti eg ad þacka þeim gódfræga Sjálands Biskupi Lodvík Harboe, sem mér var sendur 1741 til ad ransaka allt kénnslu, kirkna og Klerka ástand hjá mér. Ýmist þókti Biskupum mínum hagur og ýmist óhagur ad halda sjálfir bú fyrir skólann. Ýmsar biltíngar og sundurdeilíngar á stóls-gjøldunum milli Biskupa og Stóls-forstødumanna, ellegar þessara burtvísan og ad skóla-rádsmennskan var

203) Sjá þar §. 7-8, 10, 3-4 og Kóngs Urskurd af 23ja April. 1781, 8da April. 1782, 9da Maí 1783, 19da April. 1784 og 22ann Júní 1785.

var í Biskupanna einna høndum, fæddi øfulld, ásælni, miskliðir og marga óhamingju fyrir lærdóms framfarir. Allir qvørtudu yfir bágbornum kjørum og klienum innektum; Skóla-kénnendur máttu lúta lengst af ad kjørum, er Vinnumenn sléttir mundu ukk ei þacka fyrir. Skólarnir urdu opt ei haldnir veturinn út, enn sídur lengur, og þó ástundum lélega í bágum árum, enn þótt Reglugjørd af 10da Júní 1746 og Köngsbréf af 25ta Apr. 1749 áqvørdudu þeirra hald; Commissiónir gjørdu loks adskilnad milli Biskupa og Skóla, edur Stóla-haldara 1764 og 1765, hverjar skilnadar-gjørdir þeirra vóru af Köngi mildum stadfestar þann 29da Maí 1767; en hvørki vard meinid þar vid grædt, né heldur lærdómurinn svo lagadur ad bodi Tilskipana af 3ja Maí 1743, ad mér kjæmi til fullnadar bóta, enn þótt eptir þeim tídum vel vidsæmandi heita mætti.

Von mín um drjúga ellistod af 2 Skóla-piltum, sem minn mildi Köngur Fridrik V. med bréfi sínu þann 4da Maí 1759 baud mér árlega út ad senda, til gódrar mentunar í Sjálands látínu-skólum, vard ad mestu leiti ad vindi, því fáir sigldu og enn færri vitjudu mín hingad aptur, ad bodi þessa mikils Fødurs, sem þó lagt hafdi þeim fyrir, í 8da pósti háttnefnds Köngsbréf, ad takast embætti hjá mér á hendur, og heim aptur til mín halda, en borga aptur ella allann mentunar

 kostn-

kostnad ytra. Flestir, sem þángad sigldu í skóla, fyrirlitu bústadi mína úr því, kómu hér aldrei framar, og ad of fáum þeirra gat mér ordid sonn heill eda hagur í braudum. Fødur míns loflegi tilgángur var, ad af þeirra betri mentun, reynslu og skodun nytsamra vidburda og bjargar útvega utanlands, skyldu mér þanninn alast upp vitrir og velunnandi frædarar, yfirmenn og vinir, — en — í stad þeirra sá eg adra ókénnda ástundum girnast mig sem hæga fótsker um skammann tíma, til ad tildra sér því hentuglegar og brádar í gédfeldari og þeim vyrdtari sessi, en — hvør urdu mér notin? þeim skulu systur þinnar sønnu Eptirmæli á sídan best lýsa.

Hardindin, sem yfir mig dundu smámsaman, veiktu líka mínar Lærdóms-stiptanir, og hefdi ei adstodad Collectan 1757, hvørrar getid er bls. 545, 6, og 700rdla árleg gjøf míns Konúngs vid seinasta fellir eptir 1784, sem áminnst er bls. 548 ad vidhaldist hafi víst í 6, en varla ofhermt, þó sagt væri, í 9, ef ei í 10 ár [204]), hefdi minn forni Hóla-stóll og Skóli seint eda varla vidréttst. Afdrif þeirra fyrir minn Skálholts skóla, urdu þar á mót þau: ad hann, eptir eldgosid sídasta í Skaptafells-syslu, fluttist ad bodi míns Konúngs frá 29ta April 1785 til Reykjavíkur, sem bodid [illegible] var

[204]) Af Cancelli brefum til Hóla-Biskupa, af 30 Júlí 1785 og 12ta Februar. 1791, er ad ráda: ad gjøfin birjast hafi 1784, en átt ad enda 1793.

var og um Biskups-setrid, í hvörjum stad Meutagydjunum þó illa vard vært upp þadan; Dómkirkja var þar og undir eins tilskipud; en á Hólum lagdist Biskups-stóll og skóli med øllu nidur, strax vid burrfør þína, ad Kóngs-bodi af 2 Octóbr. 1801 og til Sudur-stiptis og skóla, svo úr því á eg nú ad eins einn Látínu-skóla, en er sjálf ordin ad einu Biskupsdæmi. Mátti svo um Skálholtt sanna ord Sveins Biskups vísa edur forspáa, er dó hérum 1475: Skálholtt hefir aukist og eblst med herradæmi, en þad eydist med eymd og veslingsskap [205].

A Barna-skóla Jóns Rectors Þorkéllssonar, af Testamentis-gjøf hans þann 3ja April. 1759, stadfestri af Kóngi þann 20ta sama mánadar, upprèttann 1791 ad Hausastødum í Gullbríngu-sýslu, hefi eg minnst bls. 555.

Um Hospítøl mín í þinni tíd get eg verid fáord, því oftlitid merkilegt tel eg um þau tilfallid.

Snemma løgdu børn mín þád til, ad Hospítøl yrdu hjá mèr stiptud til framfæris og adhjúkrunar spitelskum mønnum. Þad vottar Bessastada sampyckt, fullgjørd þann 11ta Júlí 1555, hvar Yfirvøld mín og hínir gódir menn beiddu Kóng Christján III, ad 4 jardir mættu leggjast til Spitala, 1 í hvørjum fjórd-



[205]) Sjá Dr. F. Johannæi Histor. Eccles. Isl. T. II. pag. 488. og Annála.

úngi mínum, nefnilega: Kaldadarnes sydra, Gufudalur vestra, Glaumbær í Skagafirdi og Bjarnanes í Hornafirdi, og, ad þeim og Prestum mætti tilleggjast helmíngur lausafjár og kúgylda hálf-kirkna og bænhúsa, er um þær mundir niðurlegduzt; en — um Spítala var mér neitad med Köngsbréfi þann 16da April. 1556. Somu bæn ítrekudu fleiri árid 1592 í for Jóns Legmanns Jónssonar, en svarid frá Christjáni Köngi IV. þann 9da Maí 1593 vottar, hvørsu litid hún ávann. Sídan qvørtudu menn um fyrir Fridrik Köngi III, hvørsu spitelska tæki yfirhønd hjá mér, søkum almúga hyrduleysis og óþrifnadar í bænum, sem ljóst er af bodi hans þann 10da Maí 1650 til Lénsherra Hinriks Bjelkes, ad rádgast um vid bestu menn mína, hvørsu spitelsku yrdi hér varnad, og enn framar af skipun hans ári seinna, nefnilega: þann 10da April. 1651 til sama Lénsmans [206]), ad leggja 4 jardir, eina í hvørjum fjórdúngi mínum, til Spítala, en koma sér saman vid Biskupa og bestu menn, um hvad þeim Spítølum tilleggjast kynni, til framfæris enum sjúku. Köngsbréf 2 Fridriks III. til Bjelkes, útgéfinn þann 12ta Maí 1652 ágværdudu, loks ad Hospitøl reisast skyldu ad Klausturhólum í Grímsnesi, Hallbjarnareyri, Mødrufelli og Hørgslandi, og þeim tilleggjast afgángs búshlutir Klaustr-

[206]) Sjá F. Johann. Histor. Eccles. Isl. T. III. pag. 460.

land, og væri 70 mílur á lengd en 41 á breidd [362]), en Fedur mínum Fridrik V. var í svo mørgu um mig annt, sendi hann mér því 1749 vitrann mann og góðann, Niels Horrebow, til að greinslast eptir náttúru-fari mínu og búnadar-háttum; hann dvaldi hjá mér í 2 ár, og gaf út 1752 merkari ritgjörd um mig á Dønsku, Þýdsku og Frønsku, med hvørri hann hratt af mér óhródri og álygum annara, en hældi mér, ad sumum þókti, nógu frekt. Hann qvad mig búa 4° austar enn ádur var haldið, hélt mig vera 120 mílur á lengd, mjósta 41 mílu, en á mørgum stødum framt ad 60 mílum á breidd [363]). Knoph fylgdi sídan Jón Eiríksson, Schønning, O. Olavius í Landkortum eda málverkum af mér, sem útgéfin vóru med Ferdásøgu Eggerts Olafssonar og Bjarna Pálssonar og O. Olavii 1772 og 1780, en eptir sjálfu Knophs stóra Landkorti lét Stiptamtmadur minn Greifi Rantzau 1761 minna málverk af mér grafa í eyr og hjá Hómanni útgéfa. Franskir Herrar ferdudust seinna umkríng mig austan- og vestan-verda á herskipum, adgættu og mældu af-

[362]) Sjá hans Nachrichten von Island, Grønland etc. Francf. und Leipzig 1747 §. 1, til hvorra Utlegg. á donsku Rector Jon Þorkellsson skrádi rjettingar ursúdar: Tilgift til Anderson om Island 1748.

[363]) Sjá hans Tilforladelige Efterretninger om Island 1752 p. 2-3.

afstødu mína, einkum 1767 og 1768. Kerguelen de Tremarec [364]), Verdun de la Crenne, Borda og Pingré 1771 og 1772, og fundu hana eptir málverkunum ránga setta; Verdun de la Crenne segir mig styttri enn eg ádur var haldin, og þar hjá austlægari, svo hann vart hefdi gétad fundid mig eptir sjóar-kortunum, í hverjum eg var of vestarlega sett. Etats-ráð Chr. U. D. Eggers, sem eptir þeim og þeirra mælíngum hefir vitjad glöggvari útreikning yfir stærd mína giöra, setur medal-breidd mína hérum 55 mílur, og lengdina hér um 85 mílur, eda med Kerguelen um 90 mílur [365]). Hann telur og á sama stad, ad frá mér til Grænlands séu 35 vikur sjáar, þar sem nærst veiti mér, en ecki yfir 60 til bygdar í sama landi. Rector Jón Þorkelsson reiknar 40 vikur frá Snæfells-Jökli til Hvarfs á gamla Grænlandi [366]). Frá mér til Færeya teljast ad eins 78, eda 80 mílur; til Þrándheims í Norvegi, sem liggur vidlíka nordarlega, edur á sömu breidd, 120 mílur frá Austfjördum, og vidlíka lángt var

[364]) Hans Ferdasaga útkom 1772 Amst. med titli: *Relation d'un voyage dans la mer du Nord, par de* Kerguelen *de* Tremarec.

[365]) Sjá hans Beschreibung von Island. Erst. Th. I Abtheil 1786, §. 26 bls. 160-161, nótu l, og yfir höfud §. 26-27.

[366]) Í hans Tilgift til Andersons fordanskede Efterretninger 1748 bls. 299.

var í fyrndinni talið til Skotlands og Englands edur Bretlands; 130 mílur til Hjaltlands, en 150 undir Irland [367]. Frá eystra horni minu í Sudur-múla-sýslu reiknast hérumm 254—260 mílur til Kaupmannahafnar, og frá Reykjanesi sydra 400 mílur til Hamborgar elfu mynnis [368]. Þó verdur, sem ádur er sagt, vegna minnar óvissu lengdar, á øllu þessu vafi, uns gløggvari adgætslur stjørnufródra og mælingar taka tvímælin af; því, þó mørg málverk af mér stærri og smærri séu bædi sérílagi og med ødrum landa afmálunum gjørd um þína tíd, eda útgéfin med ýmsum ritgjørdum, svosem af Knoph 1734 og eptir því 1761 af Greifa Ranzau hjá Hómanni, af Horrebow og fleirum sídan eptir hans, bædi í Fránkaríki og Þýdskalandi; af Jóni Eiríkssyni, Schønning, O. Olavius 1772, 1780, øll eptir Knoph, og eptir því lítid málverk til Troils Ferdasøgu [369]; eru þó øll óviss. At Bellins korti, gjørdu eptir Kerguelens siglingum 1767 — 68, ligg eg frá sydsta parti mínum til Nordur-horns, á milli 63° 14' til

[367]) Sjá sama.

[368]) Líkt telur Arngrímur Prófastur Jónsson, og qvedst 3svar vita til, ad Hamborgarar hafi á 7da degi verid í Hamborg, frá því þeir sigldu hjedan. Sjá hans Brevis Commentarius de Islandia, 1593 á bladi 6ta.

[369]) Sjá Dr. Uno von Troils Bref rörande en Resa til Island 1772.

til 66° 48′, en Búlands-nes mitt í Sudur-múla sýslu, 3° 30′ í austur, frá Ferros fyrsta middags-bríngi. Þó ber þessu ecki fullvel saman vid þau af Petit 1776 útgéfnu kort, eptir Verduns de la Crenne ýtarlegu athugasemdum á siglingum 1772, þar er sydsti partur minn undan Mýrdals-jökli 63° 7½′, en Nordur-horn mitt á 66° 44′ breidd, en lengdin frá Bjarnanúpi edur Bjargtánga í Bardastrandar-sýslu, til tángans milli Breidavíkur og Herjólfs-víkur í Nordur-múlasýslu, talin ad ná frá 352° 48′ 25″ til 1° 33′ 45″ [370]).

Fyrrnefnd óvissa um minn rétta Legstad og mína stærd, meinleg mjeg fyrir skipa-ferdir, orsakadi og, ad Kóngar mínir létu sér annt um ad fá hvorttveggja eptir athugasemdum Stjernuskodenda og gløggvum Mælingum rétt fundid. Því var mér, sem ádur er sagt, sendur Niels Horrebow 1749, eginlega þó af enu konúngl. danska Vísinda Félagi; hann adgætti og þmislegt þar ad lútandi í 2 ár. Sídan var Eyólfur Jónsonius 1772 (sjá bls. 725) af Kóngi mínum settur til ad skoda Himin-túnglanna gáng hjá mér (Observator Astronomiæ); eginlega átti þetta ad gjørast ad Stadastad, hvørsvegna honum og var veitt kónglegt vonarbréf fyrir því braudi, þegar þad løglega losnadi, naudsýnleg verkfæri til stjørnufródra skodana

[370]) Sjá v. Eggers' Beschreibung (fyrrnefnda) §. 29.



ana í hendur fengin og 8ordl. til launa; en Kóngur minn skipadi, árid 1774, ad hann skyldi ad Lambhúsum vid Bessastadi hafa fritt adsetur og þadann skoda þad honum fyrirlagda; vóru honum þá losadir 100rdlr. til launa úr því Stddastadur losnadi, en vonar-brèfid fyrir því braudi apturkallad. Hann deydi 1775, en Rasmus Lievog var 1778 útnefndur til Observators í hans stad og mèr sendur 1779, laun hans sídan svo aukin smámsaman, ad hann loks fèck 200rdli í árleg laun, fríann bústad og enn þá vænt hús handa sèr uppbyggt, vann lítid merkilegt mèr til nota, og yfirgaf mig loks árid 1805.

Til ádurnefnds augnamids, og ásamt til lèttirs kauphendlun, skipaferdum og duggu-dorgunum, var Skipherra Hans Erik Minor mèr sendur med velútbúid skip 1776, til ad uppleita, mæla og afmála háfnir umhverfis mig, adgæta likleg fiski-mid og fiski-leitir, og gjøra áreidanleg Sjóarkort hèrum. Hann mældi hjá mèr þetta ár og 1777, og hafdi þá med sèr sem málara, Stúdent Fríser. Árid 1778 komu þeir enn sama erindis, en kollsigldu þann 17da Maí s. á. slúffu á Hafnarfirdi nálægt skipi sínu og druknudu ásamt fleirum skipsmønnum, mèr til því meiri sorgar, sem Minor einkum var duglegur madur og mèr vel unnandi. Í stad Minors var Søren C. Malling til þessa verks framhalds útvalinn 1779, en deydi frá skipinu hingad seglbúnu sama ár í Kaupmannahøfn. Med

Med herskipi donsku sigldi Capitainn Wleugel til min austanverdrar og þar nálægt 1776. Hann lét tilbúa góð Sjóar-kort yfir Breiddals slóann, Fáskrúðs-Lodmundar- og Seydisfirdi, og auk þessa afstedu-kort yfir Austfirdi mína frá Vesturhorni nordur ad Borgarfirdi í Nordur-múla-syslu. Capitainn Lürken samdi Kort yfir Patrixfiörd, hvert Verdün de la Crenne og hafdi komid 1772. General-Adjutant Löwenörn kom 1786 í ymsar hafnir mínar sydra og vestra, ásamt Lieutenant Egede (sem dvaldi hér vetrarlángt og kom aptur 1787 eins og árinu fyrri, inn á Dyrafjørd og Skutulsfjørd), á eptirleitingar siglinguni þeirra eptir Grænlands fornu Austurbygd; þó ferda-áform þad heppnadist ecki, hjálpadi þessi Löwenörns sigling samt til hans, þeim mun áreidanlegri, útgáfu árid 1788 af Minors Sjóar-kortum frá Geirfugla-skérjum og Reykjanesi til Stickisholms, med Vidbætir um sjóar-strendur og hafnir á mér sunnan- og nord-vestan-verdri; þessum sídarsta eptir Capitains Verduns de la Crennes, Löwenörns og annara athugasemdum [371])

Eptir þetta hætti med øllu hafna mælingin, því Kammer-sekretéra Ol. Olavii ferdalög í 3 ár, frá 1775-77 um vestan-nerdan- og aust-

[371]) Beskrivelse over den islandske Kyst og alle Havne fra Fugle-skjærene og til Stikkets-holm i Breedebugten etc. med Tillæg etc. Kjøbenhavn 1788.

 

austan-verda mig, met eg í þessu tilliti mjeg svo litils, þó hat Köngur minn því med opnu bréfi þann 18da Aug. 1786, ad henni skyldi enn framhaldid verda; bídur þetta samt enn betri tída, því — ad sennu er af Köngi mínum þann 28da Mai 1800 Rentukammerinu á hendur falid, ad gángast fyrir mælingu hafna minna og sjáfar-stranda, og 2 Offisérar mér ári seinna, en sídan 3 sendir til gleggt ad mæla og afmála afstødu minna sjáfarstranda umhverfis, en þó eng-inn enn til ad mæla mínar hafnir; óttast eg samt fyrir, ad þetta kostnadar- og láng sama verk, med þeim launum og útbúnadi þad útkrefur árum saman, gjøri afmálun mína útdragssamari, egi hún af mínum egin Collectu-peníngum ad borgast, enn eg hefi nú líklega von eda sjón á hvørsu eg sjálf brádlega kunni upp ad vinna.

Ad forvitnast um Náttúrufar mitt og um Leyndardóma míns líkama, vóru til mín út-gjørdir **Eggert Olafsson** og **Bjarni Pálsson**, fyrst 1750 af **Mølmanni**, er frá 1748 var **Bóka-vørdur Köngs**, sídan kónglegur Sagna-skrifari, Etatsrád og margt fleira, bædi til søfn-unar fornra bóka, til hvørs mælt er þeir hafi styrk ødlast af Arna **Magnússonar** (Legats) Gjafar-stiptun, og til safns náttúrn hluta, svo-sem: grasa, dýra og steina [372]), sídan eptir Köngs-

[372]) Æfisaga B. Pálssonar, útkomin 1800, nefnir bls. 38-39 og Dr. Hauber til þess, þó med þeim mismun ad Hauber er þar allt af tal-inn

Köngsbodi þann 23ja Aprílis 1751; komu þeir út hingad ári seinna og forvitnudust um mig alla til 1757; átti hid konúnglega Danska Vísinda-félag ásamt þátt í athugasemdum þeirra, undir hvers umsjá og stjórn þeir framhéldu verkinu. Eggért samantók hid fyrsta Utkast þeirra merkilegu Ferda-sögu, en þá verandi Prófessórar Jón Eiríksson og G. Schönning endurbættu þad allt ad stýlnum og fleiru, sem formálinn sýnir [373]). Adur hafdi Eggért [374]) hjarlega lýst

Aa á prenti

inn Bókavördur Kóngs, til hvørs eg alls eckert veit, ne finn líkur í Worms Lexicon over lærde Mænd, heldur ad hann hafi verid þýdskur Sóknarprestur til Peturs kirkju í Kaupmannahöfn; Eggerts Olafssonar prentada Æfi blf. 6 minnist ecki heldur ødruvísi á þessa ferd, enn ad hún hafi af sjálfs dádum Eggerts og Bjarna „til egin „framfara þeim og reynslu í Náttúru-speki" stofnud verid. Møgulegt því ad hin frásagan í Æfisøgu Bjarna, bædi um Hauber, sem Bókavørd Kóngs og ferdar-tilefnid, megi telja med fleiru midur áreidanlegu í þeirri Æfisøgu.

[373]) Sjá þeirra Reise igjennem Island, Sorøe 1772.

[374]) Sjá hans Enarrationes histor. de natura & constit. Isl. 1749. P. I. Vid þetta efni þykir mjer hlýda mega hjer ad tengja merkilegri frásøgu úr Eggerts og Bjarna Ferda-søgu blf. 740, og eptirláta Lesarannum, hvørt heldur hann vill eigna þau nýstárlegu tilfelli, hvørjum hún skírir frá, náttúrlegum eda yfirnáttúrlegum verkunum, trú eda hjátrú, þar eg med þeim náttúrn-fróda Fleischer læt

á prenti 1749, náttúru-fari mínu og áſigkomu-lagi í eldri tídum, en eg ſakna ad eg enn ecki

féck

læt mjer ſóma ad játa: ad eg alls eckert í orſök-inni ſkilii. Sagan er Þeſſi: A Sigluſjardar-ſkardi, ſem er ſtuttur en hár ſjallvegur á milli Fljóta og Sigluſjardar, vid Sýſlumót Eyja- og Skaga-ſjardar ſýſlna, hafdi hjerum í 100 ár jafnadar-lega ſieſt einhver óguarleg og banvæn Loptſjón, lík ſvörtu ſkýi og líkuſt ſtrocki ad lögun, ſem á mjó-um ſtígi á ſkardinu hafdi Þeſs á milli ſteypſt ofan á ferda-fólk, eins um ljóſann dag, ſem á nóttu, Þó einúngis á einn mann í einu, Þó fleiri væru opt á ferd ſaman, á ſtundum bædi á undan og eptir, en ſá, ſem ſký Þetta ſettiſt á, hneig ſtrax daudur nidur. Þó komuſt menn og opt hjá Þeſſum háſka. Þetta hafdi vidhaldiſt, ſegi eg, hjerum í 100 ár, Þegar ſtadrædi og manntjón af Þeſſu hjer um 1730 tók ſtórum ad vaxa, hvörs vegna Mag. Steinn Jónsſon Biſkup tók Þad til bragds, ad ſkipa Stipt-próſaſti **Þorleifi Skaptaſyni**, ſem Þá ad ſönnu var Próſaſtur í Þíngeyjar-ſýſlu og Preſtur ad Múla, en einhvörr hinn merkilegaſti Gáfu-madur og Preſtur Nordanlands baldinn á Þeirri tíd, ad framflytja opinbera Gudsþjónuſtu og bæna-gjörd á Þeſſum ſtad. Vid ſteina, ſtígi Þeſſum ná-læga, höfdu ferda-menn Þó ádur opt gjört bæn ſína, ádur enn á hann lögdu, margir Þó öreudir hnígid. Altari af grjóti var á ſtíginum reiſt hjerum 1735 og opinber Guds-Þjónuſta og bæna-gjörd Þar Þá framin í vidurviſt fjölda fólks, en — alls enginn tiniſt á Þeim vegi nockurt tjón Þadan í frá bedid haſa. Eggert og Bjarni neſna, ad Þorleiſi Skaptaſyni, Þá Þegar ſem Stiptpróſaſti, haſi verid Þetta ſkipad af Biſkupi, neſnilega Steini, er deydi 1739, ſem ſtadfeſtir Þad, blſ. 621, ádur

fram-

fékk seinna part þessa snotra rits prentaðann að sjá, en Bjarni ritaði um mín Søl sama ár [375]. Um Jøkla mína skrifaði Rector Þórður Þorkéllsson Vídalín þegar 1695 [376], en það rit útkom, aukið og útlagt á þýðsku af Páli Bjarnasyni Vidalín í 12ta B. af Hamburg. Magazin. Öndverðlega á þinni tíð, fyrir 1717 ferðaðist einhverr mér littkénndur hér um, og ritaði um náttúru-far mitt, að segn. ecki ómerkilega frásøgu [377]) Jón Sæmundsson Prestur til Reykjahlíðar og Skútustaða, lýsti eldgosunum við Mývatn 1724—25, 1727—28; frásaga um fyrri 2 árin var prentuð á Dønsku 1726 [378]). Niels Horrebow kom, sem áður er sagt (bls. 730), til mín 1749, var hjá mér 2 ár, og gaf 1752 út greinilega lýsingu af mér í þar nefndu riti. Frasøgu

Aa a 2 þeirra

framfærða, að Þorleifur verið hafi Stiptprófastur á Hólum, bæði á undan Steini Biskupi og eptir hann.

[375]) Sjá hans Obſervationes de Alga ſacharifera mar. Isl. 1749.

[376]) De montibus chryſtallinis Islandiæ.

[377]) Sjá hjerum Eggers's Beschreibung, sem bls. 63-64 í nótu i, lýsir henni sem óprentaðri uppá 192 bls. í 8vo, med Titli: Reise-Beskrivelse til Island, Kjøbenh. 1717, (hvorja ritarinn hefir tileinkað Teiti Presti Pálssyni til Eyrar við Skutulsfjørð) og skamstafað nafn sitt undir með N. L.

[378]) Relation om det udi Island brændende Fjeld Krabla.



þeirra Eggérts og Bjarna um jardskjálftann og eldgosid úr Kötlugjá 1755, setti Jón Eiríksson (sídan Conferents-rád) á danska túngu, og lét prenta [379]). Hallдór Sýslumadur Jakobsson lét 1757 prenta frásegur um mín eldgjósandi fiöll [380]); sama ár útkom Jóns Sýslumanns Snorrasonar lærda rit, um Akuryrkju Íslendínga [381]). Árid 1764 kom til mín um vorid: Jóhann Gerhard König, og dvaldi hér til haustsins árid eptir, til ad grenslast eptir jurtum og grösum, er hjá mér vaxa, hverra registur Conferentsrád O. F. Müller sídan gaf út á prent [382]), en Königs tala þeirra fylgir aptan vid Eggérts og Bjarna Ferdasögur, undir titli: Flora Islandica, edur Íslendska Blómstur-gydjan. Árid 1766 brann Hekla mín seinast, og lýsti Dr. Hannes Finnsson hennar eldgosi á dönsku s. á. [383]). Nafnfrægur enskur Herra Jóseph Bancks, sem til náttúru-fródleiks og landa ytar-

[379]) Kjøbenhavns Videnskabers Selskabs Skrift. 7de D. No. 6.

[380]) Fuldstændig Efterretning om de i Island Ildsprudende Bjerge, Kjøbenh. 1757.

[381]) *Tractat. Hist. - phys. de Agricultura Islandorum.*

[382]) Enumeratio stirpium in Islandia sponte crescentium, í Nov. Act. Nat. Curios. T. IV. (sjá Worms Lexicon).

[383]) Sjá hans Efterretning om Tildragelserne ved Bjerget Hekla, etc. 1766.

arlegri þeckingar, ferdadist vída um jørdina, kom og til mín 1772, med honum Dr. Solander og Dr. Uno v. Troil; þeir fóru til Hekln, dvøldu hér fáar vikur, og skildu eptir hjá mér mikid ljúfmennsku, ørlætis og lærdrar starfsemis mannord. Uno von Troil gaf sídar á prent fráſøgur um þessa ferd híngad [384]). Tel eg þá nærst ad tímatalinu fyrrnefnda, bls. 735, O. Olavii ferdaløg 1775 —77 um mig vestan, nordan og austan-verda, en Conferents-ráds Jóns Eiríkssonar fródlegu inngángs ritgjørd fyrir hans ferdaſøgum, lángmerkilegasta af því verki, hvert hann þó gjørvallt, likt og Eggérts og Bjarna Ferdaſøgur, ad stýlnum merkilega bætti. Henkel og Ziener vóru mér sendir 1775, sá fyrri til ad skoda Brennusteins-námur mínar sydra og nyrdra, en þessi til ad skygnast um mín Surtarbrands-fjøll vestra, þeir sigldu samsumris hédan, en ferdaſøgur þeirra finnast aptan vid nýnefnda Olavii Ferdabók, eins og eg, bls. 534, hefi ávikid.

Eg hefi, bls 535, einninn til þess bendt: ad Walter og Adam Usler vóru mér sendir 1776, til ad útsjá, hvad best mætti haga Salltverki mínu, byrjudu 1773 á Reykjanesi, og ødru áformudu á Reykhólum, og vil því ecki framar ordlengja þar um, nema ad

Aaa 3 eins

[384]) Sjá hans Bref vórande en Resa til Island 1772 Uppsala 1777; þó telst útlegging þessarar bókar á þýdsku útkomin í Uppsølum og Leipzig 1779 enn þá vissari.

eins bæta því vid: ad þeir álitu 124 Sallt-pønnum gjørlegt nidur ad koma á Reykhólum, og í þeim ad sjóda 125 tunnur sallts á mánudi hvørjum, en gátu alls eckért sagt, hvørt innsigling hafskipa yrdi þángad fær, né heldur hvørja feiknar summu Salltverks stiptan þar, svo stórkostleg, krefja og gleypa mundi [385].

Á umferdum sínum 1775—77 hafdi Sekretéri Olavius fundid líklega Porcellain-jørd í Mókollsdal í Stranda sýslu, og sendt nockud af henni til prófs, Fyrirrádendum ennar frægu, nýbygdu dønsku Porcellain-fabríku í Kaupmannahøfn, en þad senda reyndist oflítid til duganlegs prófs; óttiuü ad góda porcellain-jørd mundi med tímanum þrjóta, fyrir nefnda Fabríku, frá Borgundarhólmi, sendi Stúdent Nikulás Móhr af stad til mín 1780, ad ransaka betur Porcellain jørdina í Mókollsdal, og vídar ad henni leita, en um leid adgæta allt, er til upplýsingar í náttúrusøgu minni, og til búsældar framfara horfa mætti; hann lét sama ár drjúgari sendíngu af Porcellain jørd úr Mókollsdal, ad álitum gódri, sigla til prófs med Skagastrandar-skipi, en — undir eins med því kollsigla, og þanninn verda ad engu Móhr ferdadist um mig nordan og austan frá Skagastrønd í Húnavatns-sýslu til Djúpavogs í Sudur múlasýslu, og yfirgaf mig 1781, en lét á prent útgánga

[385]) Sjá Forberedelse til O. Olavii Reise bls. CLXXVI. CLXXVIII.

gánga 1786 fullkomnari Náttúru-ſögu mína, enn eg þángad til átti [386].

Ad eg nú minniſt hér til enda á Sendimenn til ſkodunar náttúru fars míns, gét eg þeſs: ad Kammer-herra og ſídan Stiptamtmadur minn Levetzow, fyrrnefndur blſ. 600, var um hauſtid 1783, eptir Skaptár-jökuls ſídaſta eld-gos til mín, útgjördur af Köngi mínum, og áſamt honum Magnús Stephenſen; átti hinn ad yfirvega einkum hvad til vidréttíngar eydilögdu plátſunum horfa mætti, en þeſſi, auk þeſs ad hjálpaſt ad til ſama, ad giöra gleggva útmálun og fráſögu þeſſara ſtórkoſtlegu náttúru minnar umbrota, hvar um hann útgaf bókar-korn, prentad 1785, med eyrgröfnum málverkum [387].

Lokſins var núverandi Land-chírúrgus Sveinn Pálsſon mér ſendur frá ny-ſtiptudu Náttúru-ſögu Félagi í Kaupmannahöfn hérum 1792 — 1794, ad ferdaſt um til frama náttúru-ſögu minnar, en — hann ferdadiſt lítid eitt, og ad hann hafi nockud ſérlegt hér í útrétt, hefi eg ecki ſpurt.

Seinaſtur útlendra, er til mín ferdadiſt, annadhvært egin lyſtiſemdar eda náttúru-ſögunnar vegna, var enſkur úngur Herra, ad

Aa a 4 nafni

[386]) Sjá hans Forſög til en islandſk Natur-hiſtorie 1786.

[387]) Sjá hans Kort Beſkrivelſe over den nye Vulcans Ildſprudning i Veſter-Skaftefells-ſyſſel paa Island i Aaret 1783, Kjöbenhavn 1785.

nafni John Stanley, sem skodadi Geysir og og Heklu 1790.

Fleiri enn þá vóru þó þeir, sem annadhvert med ferdum til mín eda ritgjørdum létu sér annt um, ad sá mína Land-bústjórn og búnadar-háttu vidrétta. Med þeim tel eg fyrst og merkilegast Løgmanns Páls Vidalins optnefnt rit, Deo, Regi, Patriae, aukid, umbætt og á Dønsku útgéfid 1768, af Jóni (Conferents-rádi) Eiríkssyni, og nálægt sømu, eda fyrst í þinni tíd, Rectors Arngríms Þorkélssonar Vidalíns rit um betrun míns ástands [388]). Matthias Jóachimsen Wagel ferdadist hér um mig hálfa, seinast á døgum Friðriks míns IV., qvadst hafa hans munnlega skipun, ad adgæta sérhvad, er mér mætti til vidreistar þéna, og samdi í Christjáns VI. tíd þaradlútandi Athugasemdir [389]). Løgmadur Hans Becker ferdadist med Arna Magnússyni og Páli Vidalín í 4 ár, og ritadi heilrædi um mína vidreisn [390]). Niels Horrebow samdi, auk hans fyrrnefnda, 1752 prentada rits (sjá bls. 730), annad, sem enn er óprentad, um búnadar-háttu og vidréttingu mína

[388]) Hier enn óprentad, med titli: Consilium de Islandia in optimum Statum constituenda.

[389]) Anmærkninger over Islands Indbyggeres fattige og forarmede Tilstand, enn óprentadar.

[390]) Forslag om Islands Opkomst (enn þá óprentad).

mína 1751 [391]). Svenskur Barón, Fridrik Vilhjálmur Hastfer, færdi mér, árid 1756, 10 hrúta af ensku kyni, sigldi um haustid. eptir þad hann hafdi safnad ad þeim 100 ám til betrunar fjárbragdsins og ullarinnar, og skilid eptir þénara sinn til þeirra umsjónar; en kom þó aptur 1760 med spanska hrúta, hvadan ógjæfan eptirá reis, er þeir sýktust á leid til mín; skrifadi samt mér til góds ritkorn 1757, vidvíkjandi þáverandi ástandi mínu og þess betrun, og deydi 1762 [392]). Kaupmadur Thómas Balle útgaf Búnadar-þánka sína um mig 1760, eptir margar ferdir til mín, og 1771: Islendínga von til Kóngsins, um allranádugasta umbreytíngu á þeirra hørdu kjørum [393]). Eggért og Bjarni og Olavius ferdudust og, sem ádur er sagt, í þessu tilliti, sem þeirra margnefndu ferdabækur votta; Móhr ad nockru leiti 1780 (sjá bls. 742—43); Land-commissióna ferdirnar hefi eg ádur nefnt. Í mørg ár fékk Jón Grímsson, Urtagards-madur, laun nockur af Kóngi til ad ferdast um hjá mér, og kénna kálgarda-rækt, en útrétti vid þad ofur lítid. Þórd



391) Relation og Betænkning over Islands Oeconomie, etc.

392) Upartiske Tanker om Islands nærværende Tilstand, etc. (enn óprentada).

393) Sjá hans Oeconomiske Tanker over Island, til høiere Betænkning, 1760, og Islændernes Haab til Kongen, etc. 1771.

Stúdent Þóroddsson lét Kóngur minn ferðast frá 1773—80 á sinn kostnad, bædi í Svíaríki og hjá mér, til athugunar alls þénanlegs, er vidrétta mætti búnadar-háttu mína; 2 af þessum tilnefndu árum, 1779—80, ferdadist hann med þáverandi Kammerjúnkur, en sídan Kammerherra og Stiptamtmanni Levetzow um hjá mér í þessu og fleirn tilliti, þó eg ecki hafi fengid uppspurt, hvad upplýsandi eda mér gagnlegt sú ferd þeirra, eda Hofjúnkurs von Brandts hingad 1756, hafi fædt, heldur enn nockrar fleiri Nálægt í sama tilgángi lét Konúngur minn 1779, þá nhordinn Vice-legmann, nú Amtmann Stephán Þórarinsson, ferdast til Norvegs á sinn kostnad, og lagdi honum sídan, í nærstu ár þar eptir, 100 rdli árlega, til ad framqvæma og kénna þad, vid vatnsveitíngar af mýrum og annad, sem hann hafdi uppástúngid. Þad leiddi helst af sér Rit hans um þetta efni í Lærd. L. Fél R. II. B. og fyrirheit verdlauna af Kóngi fyrir þesshättar störf. A seinni árunum skrádi hann, sem fyrr segir, í sömu ritum, um mér enn markverdari búnadar-efni, svo sem: Heyfordabúra stofnun, og um jöfnud Heyja-nota mót Korn-yrkju, auk þess, er hann á Dönsku ritadi um Hallæri og þeirra verkanir (sjá bls. 542). Adrar líks efnis merkilegn Ritgjördir í sama Félags Ritum, einkum míns Stiptamtmanns O. Stephánssonar: um Gagnsmuni af Saudfé; um Not af Nautpeníngi;

um

um Hesta; um Sjáfar-abla, etc.; um Æðar-varp; um Jafnvægi Bjargræðis-veganna. Biskups Dr. Hannesar Finnssonar: um Mannfækun af Hallærum; um Barnadauða; um Brennusteins-nám, etc. Landfógeta Skúla Sveita bónda með Viðbætirum, og M. Ketilssonar Athugasemdum; Rit þessa: um Innilegu búsmala, Íslands Mánaða-tíðindi frá 1773—76, á Dönsku í Hrappsey útgengin; hans og Bjørns Prófasts Halldórssonar og annara ýmisleg fleiri búnaðar-rit, hefi eg áður nefnt.

Auk Páls Vídalíns og Jóns Eiríkssonar, sem útgaf og viðjók hins margnefnda merkis-rit Deo, Regi, Patriae, Rectors Arngríms Vídalíns, Wagels, Beckers, Horrebows, Hastfers, Bolles, er allir rituðu skorinorðt um mína kauphøndlun, hennar form og breytíngar, tel eg sérlegasta Rithøfunda um sama mér merkilega efni þessa: Geheime-ráð Ove Høgh Guldberg [394]), Etatsráð Christján Martfelt [395]), Stríðs-ráð Arva Guðmundsson-

[394]) Sjá hans eður Philodani Undersøgelse af Philopatreias Anmærkn. 1770-71. og hans Tanker om Philocosmi Betænkninger 1771. Tillæg til Philodanus, útkomið 1771, man eg nú ecki að fedra.

[395]) Sjá Philocosmi Betænkninger over adskillige vigtige politiske Materier, 1771, og Brev til Philodanus, 1771.

 

mundsson [396]), hann þó mér og sjálfum sér til lítilla sæmda; Skúla Magnússon [397]), Vice-lögmann Jón Olafsson [398]), Jón (Conference-ráð) Eiríksson [399]), Siptamtmann Þor-
kél

396). Sjá hans ednr Islandophili upartiske Tanker om Handelen paa Island 1771 og Anmærkninger over Compagniets Handel paa Island 1772. Ad Landfógeti Skúli og Arvi Gudmundsson hafdi ecki verid vinir, má bædi ráda af þeirra gagnstædu ritum og ólíkri velvild til Íslendinga, líka af tilefninu til Arva innkomu hingad 1768, sem var, ad Skúli þetta ár tapadi sinni og samfelaga málssókn, mót kaupþandlunar Compagníenu (sjá bls. 561) var med lagsbrædrum sínum dæmdur ad betala 5000rdli, og sjálfur settur frá nýju Innrettínganna Umsjón í Reykjavík, en — til hennar aptur settur og innsendur Strids-ráð Arvi Gudmundsson, ádur Kaupmadur í Finnmörku. Sama árid 1768, sendi nefnt Compagnie híngad skjemmt og óheilnæmt mjøl, af hvørjum 1000 tunnum var ytra fleygt, hitt hjer nidurjett, hóf Skúli þá mál á ný mót Compagníenu, sem 1772 dæmt var til 4400rdq. útláta, um hvørra rádstøfun eg vísa hjer aptur til bls. 561.

397) Sjá hans Svar paa den i Magaz. for Patr. Skrib. 1771 inddragne Islandophilus.

398) Sjá hans Betænkninger over den islandske Handel 1772.

399) Sjá hans Forsøg til Forberedelse til at besvare det kongelige danske Landhuusholdings Selskabs Spørsmaal: om den bedste Handels Indretning for Island 1783.

kél Fjeldsted[400]), Etatsráð Carl Pontoppidan[401]) og Stiptamtmann Olaf Stephánsson[402]).

Lofsins má þad vera vinum mínum til æruminníngar, ad þeir undir burtfør þína lögdu sameginlega vidleitni á, ad fá í fyrstu aflaga gengnu kaupþøndlunar formi hjá mér, kippt í lidinn. Gódur vilji og vidburdir vóru þad eina, er í þeirra valdi stód, um hvørttveggja hefir veröldin opinberann vott[403]), sem eg alla tíd á ad vyrda. Þó óheill mín bægdi mér þá strax frá ardmeiri uppskéru, brást hún þó ecki med ellu, og ecki er um betri örvænt med framtíd. Stapp og stríds skrif hér út af spunnin, met eg mér alls ecki vidkoma, med því eg veit fullvel uppá nockur þeirra hlýda, er leitudu eptir grundvallarlaust ad ósæma mig og vini mína, viturs manns Voltaires ord: "Syndú" mér," segir hann[404]), "eitt einasta níd-rit "í allri Nordurálfunni, sem eilíf skömm ecki "hylur,

400) Sjá hans Pris-skrif: Om en nye Handels Indretning udi Island 1783.

401) Sjá hans: Samlinger til et Handels Magazin for Island, 2 Dele 1787-88.

402) Sjá hans: Kort Underretning om den islandske Handels Førelse, etc. 1798.

403) Sjá Islands almindelige Ansøgning til Kongen, etc. med Erklæringer 1797, undirskrifada af flestum Yfirvöldum á Íslandi.

404) Í sínu nafnkienda brefi til Dana-Kóngs af 15da Jan. 1771. Útl. og prentudu á Dönsku, bls. 10.

"hylur, eda varanleg gleymska ecki haldi "nidurklesstu undir þvi foruga feni, hvad= "an þad útvall." Eg vænti og fagna meiri mannúdlegleika, upplýsingar og sidsemdar í fari yngstu systur þinnar, mín Framlidna! þó fáir viti hvörju fagna skal!

Vilji eg nú í einu yfirlita hid merkileg= asta eptir ádurfegdu um Lærdóms ástand og Visinda-framfarir hjá mér í þinni tíd, verd eg ad nefna þeirra merkilegustu verkfæri, Prent= verkin, Fornfrædi mín, Lærdóms=følog og sérlegustu Bækur.

Forleg Hóla prentverks hefir á mitt mál greinilega synt, minn forþénti fornvinur Hóla= nóphilus, samqvæmt ritum Biskups Doctors Finns Jónssonar og Magnúsar Ketilsson= ar[405]), nefnilega: ad þessi vafalausa eign Bisk= ups Mag. Þórdar Thorlacii[406]) var af syni hans Brynjólfi Thorlacius árid 1704, seld burt frá Skálholti Biskupinum á Hólum, Mag. Birni Þorleifssyni, sem keypti Prent= verk Biskups Thorlacii fyrir sína egin pen= inga, og flutti ad Hólum. Af Eckjufrú hans var

[405]) Sjá Minnisverd Tídindi I. B. bls. 322=338. Hist. Eccl. Isl. T. III. p. 226, 373, 381, 676, 746, og Forordn. etc. for Island T. II. bls. 352 etc. í nótu.

[406]) Sjá þar ad lútandi Kóngsbref af 14da Febr. 1685, 7da Apr. 1688 og Mag. Þórdar Thor= lacii Testament af 30ta Júní 1695 auglýst á Logþingi.

var það síðan 1712 lagt og betalað í álag þess, er með Biskupsstólnum afhendast átti Biskupi Steini, hverr 1724 fann uppá þann ástæðulausa fyriſlátt, að Hóla-stóll ætti Prentverkið, eptir Testamentis bréfi Biskups Guðbrands, fèck þarum tilnefnda Commissión mót fáráðlínginum Brynjólfi Thorlacius, út af hverjum hann loks, með umtølum og klókindum Páls Løgmanns Vidalíns, fèck það slekað án dóms, þann 17da Júlí s. á. Paðan útgèck samt um þína tíð, hmislegt af nytsømum og góðum bókum, þó meðfram enn meira af smeckltitlum sálma- og ljóða-druslum, hugvekja- og bæna-rusli. Loks hvíldist það því nær með øllu hèr um 20 ár, og var, eptir Kóngs-bréfi þann 14da Júní 1799, lagt útslitið, með øllum tilheyrandi leifum, til Prentverksins í Leirárgørðum og saman við það, undir einka-stjórn og umsjón míns Landsuppfræðíngar Fèlags.

Kóngs-bréf, útgèfið þann 4da Júní 1772, leyfði þáverandi Stúdent, síðan Kammersekretéra Olafi Olavius, að reisa hèr upp annað Prentverk, og brúka það til annara enn andlegra bóka prentunar; hann setti það niður í Hrappsey 1773, hvar það gèck um eins árs tíma undir hans, en síðan Magnúsar Sýslumanns Ketilssonar umsjá. Frá þessu Prentverki útkomu: Skarðsár-Annálar, 1ti og 2ar Part. konúngl. Tilskip. og Kóngsbr. til Islands, Norsku-løg íslendskuð, Mán-

ada Tídindi dönsk, Rimur og hmislegt. Loks hvíldist þad, eins og Hóla, undra lengi, vegna útdráttarsams kostnadar, er ecki fékst endurgoldinn. Björn Gottskálksson keypti þvi Prentverkid 1794, lèdi þad Lands-uppfrædingar Félaginu, sem setti þad nidur í Leirárgørdum, undir stjórn Magnúsar (þáverandi Løgmanns) Stephensens, og seldi þad sídan nefndu Félagi aptur 1798, sem undir eins gaf þad til opinberrar Vísinda-stiptunar mèr til nota. Um þess ádur þraungu Prentunar-takmørk rýmdi Canselli-bréf þann 13da Sept. 1794, ad þvi leiti Tilskipanin af 27da Sept. 1799, ecki bannar, og vid þetta verk vard, sem fyrr segir, Hóla-prentverks leifum samansteypt 1799. Mergd fyrirliggjandi óútgenginna bóka, hallæri og gripa-fellir fólks sídar uppáfallin, deyfdu lyst og kaung þess til bóka-kaupa, og dýrleiki alls naudsynlegs, rèdu nú seinast til, um stund, ad draga eins stórkostlegann kostnad og ádur til fyrelldrar prentunar margra bóka, uns í árum batnadi, og eitthvad útgengi af fyrirliggjandi bóka upplegum, til ad standa med tilkostnadinn.

Í Fornfræda minna tilliti vil eg nú fyrst minnast á þær útgáfur minna eldri Sagnarita og Fornfræda, mèr til gagns og sæmdar, sem þú lètst þèr einka umhugadar vera, undir umsjón lærdrar Commissiónar og sèrlegra Lærdóms framara. Ad sønnu drap eg þar á (bls. 723 —24), ad sú fyrsta Land-commissión

1702

1702 — 12 hefdi sárlega ráid mig dýrmæt-ustu hèradlútandi skjølum, sem þó ad miklu leiti logudu upp í Kaupmannahafnar bruna 1728, nú minnist eg þess, sem fyrri, bls. 711, ad minn vyrdti og lærdi sonur, Próféssor Arni Magnússon, deydi í nefndum Høfudstad 1730, testamenteradi Kaupmannahafnar Háskóla bóka-safni allt hvad hann átti af skrifudum Fornfræda- og Sagna-bókum eptir, sem þó var furdu mikid, og þaradauki 10,000 rdli, til ad styrkja fátæka stúderandi med, er legdu sig eptir Nordurlandanna fornfrædum, og þénudu til þeirra gódrar útgáfu á prent, og sømuleidis til ad standa prent-kostnadinn. Fúndátsían fyrir þessari hans Stiptun komst loks í stand 1760, en litid vard ágengt med fornfræda útkomu frá henni um hríd, nema hvad hún styrkti Jón minn Olafsson, Stúdent frá Svefney, sem lengi og enn hefir þar, med øllum sóma, lagt sig eptir fornfrædum, til prentunar kostnadar hans lærdu rita, um Skírn og Gudsyfjar[407]). Þvi nefndi Kóngur minn til stødugа Commissión af lærdum Herrum í Kaupmannahøfn 1772, til þess ad framfylgja fornritanna útgáfu á prent, eptir stiptun Arna Magnússonar, af alefli. Biskup minn Dr. Hannes Finnsson vard hennar Sekretéri um tíma, og eptir hann minn lærdi sonur,

Bbb Júst-

[407]) Sjá hans ritgjørdir: de Baptismo, 1770 og de Cognatione spirituali, 1771.

Júſtítsráð og Próféſſor, nú Geheime-Archivarius Grímur Jónsſon Thorkelín. Ýmſir Stúdenta minna þágu lengi hjálp af þeſſari ſtiptun til útleggínga og útſkíringa minna fornfræða á látínſka túngu, og í fyrſtu gèck verk þettá allgreidlega, ſvo Kriſtni-ſaga, Gunnlaugs Ormstúngu-ſaga, Húngurvaka med Páls Biſkups og Þorvalds Vidførla-ſøgu, útkomu til 1778, gaf þá Kóngur minn Stiptuninni 1000 rdli, til ad létta undir prentunar koſtnadinn. Seinna kom út partur af Sæmundar Eddu, og Grettla mun lokſins véra útkomin, þó eg hafi hana enn ecki ſjed, þar hún var komin vel á veg fyrir 25 árum[408]. Vid þetta vyrdiſt nú ſamt mikid dodnad hafa yfir þeſsháttar ydna útgáfum frá fyrrnefndri Commiſſión, ſem um tíma er ſem gengin til hvíldar á unnum lárberjum.

Sá mikli Lærdóms-framari, Kammerherra Súhm, vottadi ſína dæmalauſu gódvild og rauſn, med því, í mørg ár, ørlátlegaſt ad ſtyrkja allmarga ſonu mína til lærdóms-ydkana, einkanlega í Nordurlandanna fornfrædum, og til ad draga fram í allsherjar ljós fjølda minna fólgnu fjárſjóda, í vídaſt ókénndum ſagna-ritum, ſem hann med ótraudnaſta egin erfidi og tilkoſtnadi lèt ſmámſaman á prent útgánga. Medal þeſſara tel eg Landnámu, Orkneyínga-

ſøgu,

[408]) Sjá um þeſſi efni Forberedelſe til Olavii Reiſe blſ. CLXV-VIII.

søgu, Rímbeiglu, Njálu[409]), sem lengi átti í ad fædast á ný (ef hún og enn er algjørlega fædd); Egils Skallagrímssonar-søgu[410]), Eyrbyggju, Vígaglúms-søgu, Hervarar-søgu. Ad eg ecki gat fengid í hans tíd ad sjá á prenti þad markverda verk, af gømlum samandregnum Annálum mínum, er hann lengi kostadi uppá, syrgi eg mjøg, og margt fleira, mér ókunnugt, mun eg víst ega þessum mikla manni ad þacka[411]) Med enn meiri, já, kónglegri prakt, lætur Hs. K. H. Erfdaprinтз Fridrik á mína, danska og látinska túngu útgánga Safn bestu og stærstu Sagna-rita minna, Norvegs søgu vidvíkjandi, svo sem Snorra Sturlusonar Heimskríngla, Sverris-søgu, Hákonar Kongúngs Hákonarsonar, skráda af Sturla Þórdarsyni, og Knytlingu, edur Dana-kónga-søgu í midøldunum (hver þó ádur er, med látinskri útskiríngu Arna Magnússonar prentud); útgáfan hin lofar þó ecki einasta sinn konúngl. Utgéfara, heldur og þá, er íslendska textann, af bestu fornskjølum samanlesa, og gjøra sídan hans útleggíngu á danska og látinska túngu, hvørt vandada verk lengi má heidra Júst'its-ráds heitins G. Schønnings

Bbb 2

409) Hana útgaf Olavius og í Kaupmannahøfn árid 1772.

410) Hún er og med Armanns-søgu í Hrappsey útkomin, 1782.

411) Sjá hjer um Forberedelse til Olavii Reise bls. CLXIX-X.

nings lærdóms minníngu, sem fyrir sinn dauda 1780 aflauk þeim fyrstu 2ur pörtum af Snorra, eins og hitt sídan útkomna, og hvad enn á-breftur þad áformada, gjörir og gjöra mun míns forþénta vyrdta-sonar, Júftits-ráds Skúla Þórdarsonar Thorlacii og míns lærda Jóns Olafssonar (frá Svefney) loflegu nefnum. Þó hefir velnefndur Jón Olafsson ecki sidur gjört minníngu sína ódaudlega, med lærdu Príss-riti um Nordurlandanna forna qvedskap[412]), sæmdu 100 rdla verdlaunum, af enu konúnglega danska Vísinda Félagi.

Mér siálfri sinnst þad heldur ecki lítill sómi, ad Erfda-prints Fridrik hefir ecki alls fyrir laungu, med konúnglegri prakt og kostnadi, látid reisa mínum Snorra Sturlusyni Heidurs-varda, vid Slot sitt Jægerspriis í Sjálandi, medal annara forþéntustu merkismanna.

Biskup minn, Dr. Hannes Finnsson, gaf út á prent Kristinn-rétt hinn gamla 1760, og sídan Athugasemdir vid hann; ellstu Annála mína, med látínskri útleggíngu[413]) og fleiru hér ad lútandi; en Júftitsrád Thorkelín gaf út þann, bls. 557, fyrrnefnda Kristinn-rétt Þorláks og Ketils 1775, Kristinn-rétt

[412]) Om Nordens gamle Digte-konst 1786.

[413]) J Langebeks Scriptores rerum Danic. T. II. J sömu bók á hann og ecki allsáar skíringar-geinir vid: Necrologium Islando-Norvegicum vetus T. II. p. 503-19.

rétt nýja eda Arna Biskups 1777, ádur þó prentadann med látínskri útleggingu Prófessors Arna Magnússonar[414]), Kóngs-erfda og Ríkisstjórn í Norvegi. 1777, Vafþrúdnismál 1779, Vígslóda. 1779. — 80 og annad hér ad huigandi[415]). Þó ern, ad mínum dómi, engin lærdóms-verk sona minna í þinni tíd, mín Framlidna! útkomin, er jafnist í mørgu tilliti vid Kirkju-søgu mína, skráda af Biskupi Dr. Finni Jónssyni, þar hún svo mikid af annari margsháttar søgu yfirgrípur; eda vid Rectors Mag. Hálfdánar Einarssonar, bls. 558 nefndu Lærdóms-ritgjørda fráøgu 1777, er svo ljóslega vitnar um þess lærda manns mikla lestur. Maklega má og vidlíkt segja um þessa ydjumanns vøndudu og prýdilegu útgáfu af Kóngs Skuggsjó, útkomna á mína, danska og látínska túngu 1768., undir umsjá Jóns Eiríkssonar, á kostnad Kaupmanns Søren Pens's[416]); og ad miklu leiti um hans enn óprentudu Æfisøgur Presta í Hóla-stipti, nefndar bls. 701. Á Hólum lét

Bbb 3 Leg-

[414]) Vid Pontoppidans Annales Eccl. Dan. Diplom.

[415]) Svosem: Statuta provincialia 1778. Analecta ad historiam, &c. s. á. Index Geographiæ, veterum, Diplomatarium Arna-Magnæanum.

[416]) Í látínskri rædu, prentadri framan vid Speculum regale 1768, en haldinni 1766, um þessa merkilegu bók, hefir Dr. Hannes Finnsson leidt líkur til, ad hún skrád se af Eindrida Unga, hellsta Rádgjafa Hákonar Norvegs Kóngs Herdabreida litlu fyrir edur um 1160.

Løgmadur Bjørn Markússon 1756 14 Søgur prenta, og þó Gústavs Landkróns-søgu, edur hinn svenska Róbinson islendskadann, og søgu af þeim enska Bertholð að auki. Vóru hinar 14 þessar: af Aunundi Tréfót og Grettir Sterka, Bárdi Snæfellsás, Bandamønnum, Gésti Bárdarsyni, Hávardi Hallta, eda Jsfirdínga-saga, Jøkli Búasyni, Þórhalli Aulkofra, Þórdi Hrædu, Þorgrími Prúda og Víglundi Væna og Kétilrídi, í 4to, en í 8vo: Kjálnesínga-saga, Króka-Refs, Hørds og Hólmverja, Gísla Súrssonar, Vígaglúms Þessa fornfræda lærdóma vyrdtu þarhjá og frømdu mikid um þína tíd, hvad ádur er áminnst, auk Þormóds Torfasonar, Arna Magnússonar og Jóns Eiríkssonar, þeir nafnfrægu dønsku menn: Gram, Langebek, Schøning, Lûxdorph, Jacob Edvard Colbjørnsen, en lángt yfir alla P. F. Suhm. Jafnvel útlendar þjódir, einkum Svenskir, heidrudu þessi min huldu frædi; í Bjørneri Kämpedater útkomu 1737 ymsar af minnar túngu søgum, svo sem: Uppruni Norvegs Kónga, Saga af Hrólfi Kraka, Alfi Kóngi, Hrómundi Greipssyni, Hálfdáni Brønufóstra, Ragnari Lodbrók, Norna-Gésti, Volsúngum, Fridþjófi Frækna, Samsoni Fagra, Hrólfi Svarta, Hálfdáni Kóngi Eysteinssyni, Saurli Sterka, Þorsteini Bæarmagn og fleirum. Auk þessa hefir Peringskjold ymsar útgéfid, og Brockmann

Jng=

Ingvars Viðförla Sögu í Stockhólmi, 1762[417]). Snorra Eddu útgaf Göransson á Svensku og Látínu 1746, Mallet á Frensku 1755. Minnist eg hér þó alls eckért á það marga af mínum fornfrædum, er Svenskir fyrir þína tíð útgáfu, eptir það Fornfræda Ráðið (Collegium Antiqvitatum) var hjá þeim stiptað 1666—67, ecki heldur á hvmisleg smárit annara hér að lútandi[418]), eða sona minna í þessu efni, svo sem frá Jóns Eiríkssonar[419]), Eggérts Olafssonar[420]), Þorsteins Nikulássonar[421]), Jústits-ráðs Thorlacii[422]) og annara höndum, sem hér yrði ofláugt að týna.

Bbb 4 Stæra

[417]) Sjá hjer um Formála fyrir þessari svensku útgáfu Ingvars-sögu bls. II. og Sciograph. Hist. Lit. Isl. Sect. III. §. 4.

[418]) Sjá Sibbern Idea Hist. Literar. Isl. í Dreyer monum. Schlötzers isländische Literat. und Geschichte 1774. Joh. Stechau de fide Histor. monument. Island. Lund 1763.

[419]) De peregrinat. Islandor. Philippia, Leipz. 1755, de nominibus & cognomin. Septentrional. 1753. Specim. de exposit. infant.; de Somniis & geniis.

[420]) Dispnt. 2. de ortu & progressu superst. circa ign. Isl. subterran. 1751. Tilraun og Lykill Landaskipunar og Rjett-rita-bók Islendínga, hvorttveggja enn óprentað.

[421]) De commeatu veterum Islandor. 1759-60.

[422]) Antiqvitatum borealium Observationes miscellaneæ, Specimina VI. smámsaman útkomin frá 1778-99.

Stæra má eg mig annars af því, að eg ein hefi svo fengið mitt málfæri varðveitt fram yfir flestar þjóðir, frá því eg bygðist, árið 874, til þessa dags, að það enn má vyrðast sárlítið umbreytt eða gallað í munni og penna skynugra manna, á hvörju útlenda jafnvel furðað hefir, þegar t. d. franskt og þýðskt túngumál, eptir því, sem einhvör en ellstu skjel í báðum, varðveitt frá byrjun 9du Aldar, sýna svo að hafa umbreytts til útfarar þinnar, að þeirra daga Frönsku og Þýðsku skilja nú ecki nema rétt vel lærðir menn í þeim túngum[423]). Þó eg nú ecki neiti, að í daglegt tal og skyndi-rit, læðist opt inn blendin orð eða talshættir hjá sumum, veitir þó mörgum allhægt, að bjóða mál mitt hreint og vítalaust fram; því þó talshættir og ritgjörðir fái nú allopt nockuð frábrugðnara form, leiðir það eðlilega af margra lærdóms-greina og bjargræðis útréttínga margbrotnari innleiðslu og betri dýrkun með tímanna byltíngum, enn á fornöldum, líkt breytíngu ens eldra danska túngumáls, til þess núverandi snylldar hjá Dönum. Veit eg að sönnu nockra sérlundaða, einkum þá, sem elska hellst

423) Sjá Uno von Troils Bref, rörande en Resa til Island 1772. Upsal. 1777. bls. 177-79, hvar hann telur íslendska málið enn þá hreint, og sama, sem talað var á 9du Öld í Svíþjóð, Danmörk og Norvegi, og færir til eiða Karlamagnúsar sona 806, og fólksins til þeirra á frönsku og þýðsku, til merkis um ólíka breytíngu þeirra túngumála.

hellst það fráleita og forneskjn, telja málfæri minu alltaf fara hnignandi; kannast og við skarpviturt snylli=qvæði þarum orkt[424]), en prísa framar í því Skáldsins diktunar=gáfu, enn að eg taki þar Skálda=Þkjur fyrir full=vissa frásögn; þó hygg eg, að beggja Skál=holts Biskupa, Jóns Vídalíns og Hannes=ar Finnssonar rit, með mörgum annara, að eg ecki nefni til neina enn lifandi menn, dæm=ist af öllum réttsýnum fullrétt að málfæri, en góðum mun aðgengilegri og snyllilegri, enn ó=viðfeldið fornyrða=hnoð jafnvel í sundurlausri ræðu, og fígúru=klastur nockurra nýbæringa við eptirapan forns qveðskapar myrkviðris, fram úr hvörju að eins verði ratað með þyngstu heilabrotum, laungum fornfræða=lestrum og á stundum spásagnar=andans drauma vitrunum; veitir þeim þó ervidt að troða þeirra þraunga hatti á allra höfuð, er allar mætur hafa á eintómu myrkviðri í orðum, hvör þeir munu vilja að feiti á stundum þánka=megurð í skáld=skap jafnt og sundurlausri ræðu, en finna eck=ert svo andstyggilegt, sem að skiljast af almenn=ingi[425]).



[424]) Sjá Eggerts Olafssonar Qvæði um Sótt og dauða Íslendskunnar.

[425]) Þessir óttast eg reiði sig á Rahbeks sanmæli í danske Tilskuer 1793 bls. 344:

Saa mangen en Taabe fik Navnet af Stor,
Der praled' med tomme velklingende Ord.

Saa

Vil eg þanninn til Lærdóms-Félaganna, er eg fyrst tel mig eignast hafa í þinni tíd, mín Framlidna!

Þad fyrsta Lærdóms-félag mitt, er eg veit ad tilnefna, vard til hjá mér hérum 1760, og nefndi sig þad Oſýnilega Félag. Þess áform og tilgángur var: ad frama lærdóm yfir höfud med sameiginlegum kroptum, en einkum mína egin sögu, og Nordurlandanna fornfrœda útgáfur. Þad valdi fyrst af öllu til þess Speculum regale edur Kóngs Skuggsjó, hvörja Rector á Hólum Mag. Hálfdán Einarsson tókst á hendur ad útgéfa á dönsku og látínu. Jústits-rád Schönning hafdi lengi ad undanförnu haft sama í rádi og mikid til þess verks unnid, og í annann stad Biskup Dr. Hannes Finnsson sérílagi og þar til varid

Saa mangen en Digter fik udmærket Rang
Skjøndt faa eller ingen forstod hvad han sang;
en þar á mót allopt gleymi höfud atridinu í Horatii skáldskapar krösu, er hann segir:

— — — *Neqve enim concludere versum*
*Dixeris esse satis*, &c.

hvörju Forspracki allra Skálda hjer á 18du Öld, Eggert Olafsson, hefir þanninn snúid:

Þú skalt ei kalla Skáld þann hvern sem Vísu
Gjörir, edur eins og vær,
Yrkir sljettu tali nær.
Heldur þeim, sem, hvaſs ad skyni, rædur
Guddóms hyggju og háleiks safn
Hljómar, gjefdu þetta Nafn.

varid laungu og mædusömu erfidi, sem var komid vel á veg, þegar í dönskum Tidindum 1764, var bodud væntanleg útgáfa sömu bókar frá Hálfdánar hendi. Bádir hinir hættu þar med, og vóru svo ærusamir, ad styrkja til þeirrar fullkomnunar hennar ecki allitid, med egin unnum störfum og upplýsingum, sem hún loks algjörlega ødladist vid Jóns Eiríkssonar umbót og vidauka[426]. Hvenær þetta Lærdóms Félag eginlega var stiptad, og af hverjum, eda nær þad med öllu undir lok leid, veit eg ecki med vissu, þó tel eg þess tilveru ecki lengri, enn frá 1760 — 1770; grunar, ad Mag Hálfdán Einarsson hafi verid þess fyrsti hefundur; veit, ad Sýslumadur Bjarni Halldórsson var einn í því félagi, en ad ødru leiti ecki annad um þess ødnir, enn hér er tilnefnt um Kóngs-Skuggsjó.

Annad Lærdóms-félag og mikiu merkilegra, stiptudu stúdérandi synir mínir vid Kaupmannahafnar Háskóla, þann 30ta Aug. 1779, undir nafninu: íslendskt Lærdómslista Félag, og undir Forstødu Conference-ráds Jóns Eiríkssonar, allt til hans dauda, þann 29da Mart. 1787, en sídan míns fyrrum Stiptamtmanns Lárusar Andréssar Thódals. Í allsháttar vísindum og nockrum handydnum útgaf þetta Félag 14 Bindi merkilegra Ritgjørda sinna, optast 1 á ári til 1793, en frá

[426]) Sjá J. Erichsens Forberedelse til Speculum regale 1768 bls. XXVII.

frá 1796, edur nú þegar í 10 ár, eckért; ánægt á medan med þángad til unnin Lárvidar-krans. Þann 22ann Júní 1787, gaf Kóngur minn því leyfi, ad nefnast hid konúnglega Lærdómslista Félag.

Mitt þridja Lærdóms-félag er hid konúnglega íslendska Lands-uppfrædíngar Félag. Hélanóphilus hefir á undan mér líklega sannast lýst þess fyrsta og eginlega Höfundi[427], en ásamt honum urdu þess Medstiptarar þann 19da Júlí 1794, Stiptamtmadur minn Olafur Stephánsson, sem valinn var þess Forseti, Biskup Dr. Hannes Finnsson, Amtmadur Stephán Þórarinsson, nú verandi Assessor Stephán Stephensen, Stipt-prófastur Markús Magnússon og þáverandi egandi Leirárgarda Prentverks Björn Gottskálksson. Margir gjørdust þess Félagar í fyrstu, uns hallærin á ný dundu yfir, og gripafellir áminnti sérhvørn ad verja fyrstu og fremstri áhyggju fyrir útvegun daglegs brauds. Þess útgéfnu rit til þessa, framtelja Minnisverd Tídindi I. og II. Bindi, og III. B. 1ta Deild. Sjálf Tídindin, lengst af skráð af Magnúsi Stephensen, og med honum framhaldin af Bródur hans Assessóri Stepháni Stephensen, og þeim gáfada únga manni, Stúdioso Finni Magnússyni, byrjud af þeim fyrsta á mína túngu, frá Mhári 1795, ecki ein-

[427]) Sjá hans bref í Minnisverd. Tídinda I. B. bls. 322-23.

einúngis yfir minnisverdustu tilburdi hjá mér, heldur hvar tilfrettst hefir um heiminn, á hverju ári, mættu vyrdast ecki ófródlegur lestur sonum mínum og dætrum, og mørgum þeirra minníngar-auki; þar hjá studníngur til gløggvari Eptirmæla Systur þinnar, med sama formi og framhaldi, hverra hjálpar-medøla eg nú svo sárlega má sakna um þína tíd, mín Framlídna! enn þótt nockur Annála-brot, ecki sem fullkomnust eda sum fulláreidanleg um hana finnist samin, en í fárra høndum[428]).

Fé-

[428]) Til þinna tída Annála tel eg hellst:

Hests-annál, Benedicts Prestz Peturssonar frá 1664-1724 (sjá bls. 711, hvørjum merkilega Annál, Stiptprófastur Jón Haldórsson framhjeldt til 1734. Hann gjørdi og ágætt ágrip af Løgrettumanns Odds Eiríkssonar á Fytjum laungu, en midur vøndudu Annálum, frá 1643-1719, umbætti þá og lagfærdi vídast; hjer nefni eg þó ecki þessa lærda manns nafnkjendu Rit: Hirdstjóra, Biskupa, Løgmanna, Fógeta, Løgþíngisskrifara, Rectóra og Skálholts Presta-æfum vidvíkjandi, sem ná svo skammt á þína tíd.

Haldór Þorbergsson Løgsagnari í Skagafirdi, telst framhaldid hafa Skardsár Annálum frá 1645-1720, og

Þorlákur Stúdent Marcússon (ad Sjáarborg) gjørt Safn gamallra Annála og þeirra framhald um 7du Øld og þann hluta þinn, sem hann sá, en — eg veit ecki gløggt nær þeir hætta.

Sá lærd Eyólfur Prestur Jónsson ad Vøllum í Svarfadardal samdi og einhvørja Annála um sína tíd, sem útleid 1745, en óljóst er mjer og um þá árs-tølu þeir yfirgrípa.

Þer-

